# ÁRDÍS

*Ársrit*

BANDALAGS
LÚTERSKRA
KVENNA

XVI HEFTI 1948

# ÁRDÍS

## ÁRSRIT BANDALAGS LÚTERSKRA KVENNA

### XVI. HEFTI



Ritstjórar:
FLORA BENSON, Winnipeg
ÞJÓÐBJÖRG HENRICKSON, Winnipeg

Fjárhagsnefnd:
INGUNN GILLIES, Winnipeg
GUÐRÚN ERLENDSON, Árborg, Man.
LAURA FINNBOGASON, Langruth, Man.
SARAH CHILDERHOSE, Little Britain, Man.

WINNIPEG, 1948

# EFNISINNIHALD

# Prayer

*Almighty God, our heavenly Father, we thy servants, do give Thee most humble and heartfelt thanks for all thy goodness and loving kindness to us, and to all men. We thank Thee for all the blessings of this life, above all, for Thine inestimable love in the redemption of the world, by our Lord and Saviour Jesus Christ, for the means of grace and for the hope of glory. We beseech Thee, give us that due sense of all Thy mercies, that our hearts may be thankful, that we may show forth Thy praise, not only with our lips, but with our lives.*

*We ask Thy blessing on all the activities of the Lutheran Women's League. May the League be insturmental in bringing to Thee many young hearts that are filled with the glory of Christian fellowship, and who will in time be ready and willing to carry on our work in the future.*

*We also commend to Thy fatherly goodness, all those who are in any way afflicted in mind or body. That it may please Thee to comfort and relieve them. Giving them patience under their sufferings, and a happy issue out of all their afflictions.*

*Hear us O, Merciful God, in these our humble requests, which we offer unto Thee, in the name of our Lord Jesus Christ.—Amen.*

# "Galileuvatn" Nýja Íslands

Eftir Lilju Guttormsson

Það er athugunarvert að Kristur kendi, prédikaði og gjörði kraftaverk úti undir berum himni, í mörgum tilfellum. Hann stóð oft á vatnsströnd, eða í bát skamt frá, og kendi mannfjöldanum sem þyrptist saman til þess að hlýða á hann. Hann prédikaði úti í eyðimörkinni, þangað sem fólkið fylgdi honum, þegar hann leitaði hvíldar. Hann flutti hina miklu fjallræðu uppi í hæðunum. Þannig í skauti náttúrunnar, náði hann til margra sem, ef til vill, hefðu annars ekki orðið fyrir áhrifum hans.

Á strönd Galileuvatns kendi Kristur margar af sínum dæmisögum, t. d. um sæðið, um mustarðskornið, o. fl. — Hann gjörði þar einnig mörg kraftaverk. Þar margfaldaði hann fiskinn þegar seint gekk veiðin fyrir fiskimönnunum, þar lægði hann vindinn þegar lærisveinar hans voru aðframkomnir af ótta, þar læknaði hann þá, sem sjúkir voru á sál eða líkama. Í þeim hópum sem þar hlýddu á hann, eða nutu lækninga hans á einn eða annan hátt, fann hann marga af lærisveinum sínum, sumir af hverjum gjörðust postular hans. Þannig fór hann út á meðal almúgans og starfaði úti undir beru lofti þegar skýli var hvergi nálægt. Hann lét ekkert standa í veginum fyrir útbreiðslu guðsríkis.

Þetta atriði er lærdómsríkt fyrir kristið fólk nú á dögum, á þessum tímum ókyrðar og ófriðar, þegar aldrei hefir meira riðið á því að útbreiða guðsríki sem víðast. Aldrei hefir verið nauðsynlegra en nú að nota við það aðferðir sem ná til sem flestra, sérstaklega þeirra ungu sem eru svo næmir fyrir öllum áhrifum og sem eru framtíðar leiðtogar vorir í þjóðar- og kirkjumálum. Viðvíkjandi hinum ungu sagði Jesús: — "Leyfið börnunum að koma til mín og bannið þeim það ekki, því að þeirra er guðsríki".

Þessi hugsjón Jesú, að útbreiða guðsríki í skauti náttúrunnar, og eins sú að biðja foreldrana að leyfa börnunum að koma til Hans, hafa báðar náð rótfestu, sérstaklega í konuhjörtum innan vors íslenzka, lúterska kirkjufélags. — Sannast hér að konur hafa oft frábæra innsýn og framtakssemi, sem kemur að góðum notum í

kristindómsstarfi, ekki síður en í öðru starfi. Þessar konur, sem hér er átt við, eru meðlimir Bandalags Lúterskra Kvenna. Leiðtogarnir, með góðri aðstoð annara meðlima og ýmsra sem sýnt hafa áhuga fyrir málinu, hafa barist fyrir hugsjón þessa: — fyrst með því að efla sunnudagaskóla-starf þar sem þörf hefir gjörst á því, einnig með því að hafa um hönd sumarnámskeið í kristilegri fræðslu og síðast en ekki sízt að koma á fót hinum myndarlegu sumarbúðum, Sunrise Lutheran Camp, í skauti náttúrunnar, á strönd Winnipeg-vatns, sem mætti nefnast: "Galileuvatn Nýja-Íslands". Því þangað er börnum og unglingum, leiðtogum og öðru starfsfólki, boðið að koma og hlýða á guðsorð og læra aðferðir við útbreiðslu þess. Þar kenna nútíðar læirsveinar Jesú, þeir sem sérstaklega eru undirbúnir fyrir það starf — prestarnir okkar og fleiri. Þeir útskýra dæmisögur Jesú og prédika, stundum undir beru lofti, á vatnsströndinni þar sem geislar morgunsólarinnar verma og blessa. Það er ekki mögulegt að segja að bersýnileg kraftaverk muni gjörast þar, en þó getur sú kensla, sem þar fer fram, haft þau góðu áhrif á einstaklings sálirnar ungu að þær bjargist frá glötun sem annars væri vís, og að þær læri mátt bænarinnar til að lækna mein sálar og líkama, og finni þannig veginn til hins sanna lífs sem lærisveinar Jesú og leiðtogar í starfinu fyrir Hann. Á þann hátt geta ótal kraftaverk, óbeinlínis, átt sér stað þarna á strönd okkar "Galileuvatns", í sambandi við unglinga, sem kannske yrðu ekki fyrir slíkum áhrifum annarstaðar.

Það er því ósk Bandalags Lúterskra Kvenna að sem flestir verði fyrir slíkum áhrifum á þessum stöðvum. Fyrsta tækifæri til að innritast hafa þeir sem tilheyra okkar íslenzku, lútersku kirkju, en þó er engum neitað um inngöngu, svo lengi sem rúm leyfir, hverrar þjóðar eða hverrar trúar sem hann kann að vera. En Bandalagið býður öllum Íslendingum sérstaklega, að nota þessar sumarbúðir, sem hafa verið reistar fyrir atbeina og atorku íslenzkra, lúterskra kvenna.

Hugmyndin sú, að halda sumar-námskeið í kristilegri fræðslu með unglingum vorum, átti fyrst upptök hjá forseta Bandalagsins, Mrs. Ingibjörgu J. Ólafsson, sem í níu ár alls hefir nú gegnt þeirri stöðu. Þetta námskeið var haldið í nokkur sumur í Canadian Sunday School Mission Camp og eitt sitt í Rock Lake Camp. Árið 1940

fæddist sú hugmynd að Bandalagið bygði sinn eigin "camp". Það frækorn þroskaðist, þó hægt færi á stríðsárunum, og bar sýnilegan ávöxt sumarið 1946 þegar flestar byggingarnar komust upp og voru undirbúnar að miklu leyti fyrir starfið sem hófst það sumar. Mrs. Ólafsson var þá og er enn í broddi fylkingar við byggingu og starfrækslu sumarbúðanna. Traust hennar á því að þetta fyrirtæki mundi takast og ná sínum tilgangi er augljóst í forsetaskýrslu hennar, flutt á þingi B. L. K., 1946, þar sem hún kemst svo að orði: — "En svo er hópur, sem stendur þétt saman með bjargfasta trú og brennandi áhuga. Undir trúmensku og styrkleika þeirra, er árangurinn kominn. Eg hefi persónulega aldrei efast eitt augnablik um þá miklu möguleika, sem þetta framtíðar starf gæti átt, ef Guð gæfi að engin öfl eyðileggingar gætu dregið úr því kraft og styrk". —

Þegar svona vel er búið að staðreyna áhrif og útkomu slíkrar bjargfastrar trúar, væri þá ekki eðlilegt að allir foreldrar tækju sinn þátt og gjörðu það að skyldu sinni að gefa börnum sínum tækifæri til þess að dvelja í þessum sumarbúðum, þeim til andlegrar leiðbeiningar og líkamlegrar hressingar? Auk kristilegrar fræðslu, veitist börnunum tilsögn í sundi, í líkamsæfingum og ýmsum leikjum, í hannyrðum, o. s. frv. Góðir leiðtogar sjá um velferð þeirra á allan hátt, og góðar matreiðslukonur sjá um líkamlegu fæðu af bezta tagi. —

Í fyrrasumar var þéttskipað í sumarbúðunum, öll þau tímabil sem tileinkað voru börnum og unglingum, en þeir voru ekki allir íslenzkir og nokkrir af þeim tilheyrðu ekki lúterskri kirkju. En öll voru þau áhugasöm og ánægð, og nutu þar góðra áhrifa kristinna leiðtoga. —

Þeim, sem ekki hafa litið sumarbúðirnar ennþá, er boðið að koma og yfirlíta þær. Miklu er búið að afkasta og margt er búið að öðlast til notkunar þar, en mikið er enn ógjört til þess að þetta sumarheimili verði slíkt sem okkur dreymir um. Með aðstoð allra góðra Íslendinga má draumur sá rætast, fyr heldur en síðar, að þessi staður megi verða sterkur útvörður lúterskrar kristni og friðar-aðsetur barnanna og unglinganna á meðal vor. — "Leyfið börnunum að koma til mín", sagði Jesús.

# HEIÐRAÐUR



Þann 30. maí síðastliðinn, var séra Rúnólfur Marteinsson sæmdur doktorsnafnbót í guðfræði við Gustaphus Adolphus College í bænum St. Peters í Minnesota-ríkinu; hefir þessum atburði hvarvetna verið vel fagnað meðal Vestur-Íslendinga, því séra Rúnólfur nýtur almennra vinsælda og hefir int af hendi merkilegt menningarstarf. Frú Ingunn, kona séra Rúnólfs, er heiðursmeðlimur Bandalags lúterskra kvenna, og samfagnar Bandalagið henni innilega yfir þeim verðskuldaða heiðri, sem manni hennar hefir fallið í skaut.

# Kraftaverkið -- Tónverkið

## THE MESSIAH

Eftir dimmu bakstræti í Lundúnaborg gengur aldraður, óstyrkur maður. Það er dimt af nóttu veturinn 1741. Þessar næturferðir **George Frederik Handels** voru al-vanalegar. Hið innra stríð sem háð var í sálu hans orsakaðist af frægð liðinna ára, vonleysi yfirstandandi tíma og örvæntingu framtíðarinnar. — Yfir nokkra tugi ára hafði Handel, tónskáldið fræga, samið tónverk fyrir aðalsstétt Englands og víðar í Evrópu. Konungar og drottningar höfðu hlaðið á hann heiðri. Fólkið við konungshirðinni snerist á móti honum. Afbrýðisfullir keppinautar hans leigðu skríl til að eyðileggja með hávaða og ærslum samkomur hans á leikhúsunum. Handel varð alslaus og yfirgefinn maður.

Hann fékk heilablóðfall, og varð máttlaus hægra meginn, gat ekki gengið og ekki hreyft hægri hönd sína, læknirar gáfu litla von um bata. — Hann lét flytja sig til Aix-la-Chapelle. Þar tók hann hin heitu böð. Hann var varaður við að vera ekki lengur en þrjá tíma í einu í hinni heitu laug. En Handel fór að sínum ráðum og var þar í níu tíma.Vöðvarnir fengu styrk, hann gat gengið — hann fékk nokkurn mátt í hægri höndina.

Bjartara tímabil byrjaði þá, en varði skamt, nú var hann kominn fast að sextugu, hafði enga atvinnu og var sokkinn djúpt í skuldir, hann var einmana og uppgefinn.

Þetta áminsta kvöld 1741 er hann gengur niðurlútur og örvæntingarfullur, verður honum litið upp. Hann sér kirkjuturn gnæfa við himin. Ógurlegur biturleiki hafði heltekið sálu hans. Hann spurði: "Því leyfði Drottinn það að ég fengi aftur líkamlega heilsu aðeins til þess að leyfa meðbræðrum mínum að troða mig ofan í duftið — því lét hann líf mitt halda áfram ef ég get aldrei framar framleitt neitt?" Og svo leið frá brjósti hans þetta hróp aldanna: "Guð minn, Guð minn, því hefir þú yfirgefið mig".

Hann sneri við og hélt heimleiðis — heim að sínu óvistlega hýbýli. Á borðinu lá stór pakki sem hann opnaði. — Honum varð ljóst að þar var eitthvert andlegt ritverk eftir Charles Jennens, sem ekki hafði neitt orð á sér fyrir afburða hæfileika. Þar var

líka bréf; hann biður Handel að fara tafarlaust að semja lag og raddsetja þetta — bætandi því við, að Drottinn hafi gefið orðið.

Handel varð reiður þessari frekju. Dirfðist Jennen að álíta að hann gæti framleitt guðinnblásin orð? Handel var ekki trúaður maður. Hann var skapstór og erfiður í lund, og ráðríkur, honum hafði tekist að eignast marga óvini meðfram þess vegna. — "En", sagði hann við sjálfan sig. "Að maður eins og Jennen skuli voga sér þetta — honum hefði verið nær að senda eitthvert efni fyrir operu, heldur en þetta trúarlega ritsmíð".

Ósjálfrátt fer hann að líta yfir þetta og fletta blöðunum. — **"Hann var fyrirlitinn af mönnum — hann leitaði að einhverjum, sem hefði meðlíðan með honum, og fann ekki neinn".** — **"Hann treysti Guði og guð yfirgaf ekki sálu hans".** — **"Hann mun gefa þér frið".** — Handel las áfram — svipurinn breytist, þarna eru orð sem hann kannast við. **"Undursamlegur ráðgjafi".** — **"Eg veit að frelsari minn lifir".** — **"Verið glaðir, Hallelujah".**

Handel situr sem í leiðslu, undra-tónar fylla sálu hans. Hann stendur upp, sækir penna og blöð, sest aftur og skrifar með undrahraða. — Næsta morgun kom þjónn hans með mat að vanda, enn sat meistarinn við skrifborðið. Næstu tuttugu og fjóra klukkutíma sat Handel og skrifaði af kappi og bragðaði ekki mat. Þjónninn var áhyggjufullur. "Eg óttast að hann hafi mist vitið", sagði hann. — "Hann snertir ekki matinn. Þegar ég kem inn, starir hann á mig, en sér mig ekki. Hann segir að hlið himins hafi opnast fyrir sér og sjálfur Guð sé þar".

Eftir tvo sólarhringa var listaverkið **"The Messiah"** fullgert á skrifborði Handels. Þá lagðist hann fyrir og svaf í 17 klukkutíma, það virtist sem hann lægi í dái. En hann vaknaði heilbrigður, með góða matarlyst.

Lundúnaborg hafði þvegið hendur sínar af því að vilja nokkuð hafa að gera við tónverk Handels, svo **Messiah** var fyrst sungið í Dublin á Írlandi. Tveir voldugir söngflokkar voru æfðir af höfundi þess. Örvænting hans var horfin. Þetta kraftaverk hafði lyft honum upp á sigurhæðir. Nú þráði hann að í því fyndi allur heimurinn hina nýju von. Þrettánda apríl 1742 var þetta dásamlega tónverk fyrst notað. Undursamleg hrifning hreif alla. Ágóðann gaf Handel til líknarstarfs.

Nú vildi Lundúnaborg fá að njóta góðs af. Við hina fyrstu sýningu á Messiah-tónverkinu, reis konungurinn úr sæti við upphaf

"Hallelujah-chorus". Allir gerðu það sama. Fram á þennan dag hefir sú venja haldist.

Handel æfði þetta undra tónverk á hverju ári meðan honum entust kraftar og gaf allan ágóða af því. Um páskaleytið ár eftir ár hljómuðu þessir undra tónar hans.

Að kvöldi þess 6. apríl 1759, þegar Handel var 74 ára, var hann viðstaddur, er hinir voldugu tónar hljómuðu, **"og lúðurinn mun gjalla"** — hann fékk aðsvif — vinir hans hjálpuðu honum heim. "Eg vona að ég fái að deyja á föstudaginn langa", sagði hann.

Sú ósk rættist, þann 13. apríl — sama dag mánaðar og listaverkið **The Messiah** hafði verið sýnt í fyrsta sinn — fékk hin stóra sál Handels heimfaraleyfi. En andi hans lifir í listaverkinu mikla, sem færir sigur vonarinnar yfir örvæntingunni. Fram á þennan dag er það framleitt í Albert Hall í Lundúnaborg á föstudaginn langa, ár hvert.

Í **The Messiah** hefir Handel kveikt á blysi sem hefir fært birtu um allan heim. Sú birta mun lýsa eins lengi og söngraddir hljóma, eins lengi og augu horfa til fjallanna, eins lengi og menn ala eilífðar vonir í brjósti. —

**Ingibjörg J. Ólafsson.**

(Hér er stuðst við ritgerðir í Christian Herald og Readers Degest).



# Ávarp til Bandalags lúterskra kvenna

**Flutt af ungfrú Svanhildi Sigurgeirsdóttir,**

**Reykjavík — Ísland**

Forseti, félagskonur og aðrir gestir!

Eitt af því, sem ég held að einkenni okkur Íslendinga sérstaklega er það, hvað við erum mikið gefnir fyrir að ferðast. Útþráin er okkur öllum í brjóst borin. Að komast út í heiminn, kynnast öðrum löndum, öðrum þjóðum, menningu þeirra, háttum og siðum.

Við munum eftir forfeðrum okkar. Þeir voru varla komnir af barnsaldrinum, er þeir fóru út í lönd í Víking. Lærðu þeir margt á þessum ferðum sínum, bæði sem að gagni mátti koma og ekki.

Er heim kom, sögðu þeir hinum frá því, sem þeir höfðu heyrt

og séð og leið því ekki á löngu þar til sá næsti fór af stað, að leita gæfunnar, leita nýrra landa.

Þannig hefir það alla tíð verið og er enn. Þó af eðlilegum ástæðum var ekki hægt að komast um nokkra ára bil til Evrópu. Námsmennirnir, sem að undanförnu höfðu lagt leið sína þangað, héldu nú mest til Ameríku, þannig að á árunum 1939 til 1945 var stór hópur íslenzks námsfólks hér úti í Vesturálfu, bæði í Bandaríkjunum og Canada.

Eftir stríðslok í Evrópu var því mikið um ferðafólk frá Íslandi til annara landa og það jafnvel svo að sumum þótti nóg um.

Man ég eftir smá skrítlu í því sambandi sem einn kunningi minn sagði mér og mig minnir að sé eitthvað á þessa leið:

Hann lagði leið sína frá Íslandi til Englands, en þaðan fór hann til Svíþjóðar og Finnlands. Er hann kom til Svíþjóðar þurfti hann, eins og gefur að skilja, að fara í banka upp á skiptingu peninga sinna. Fyrst hélt bankamaðurinn að hér væri um Englending að ræða, en er hann komst að raun um að hér var Íslendingur á ferð, tók hann að spyrja.

Meðal annars spurði hann: — "Hvað er margt fólk sem býr á Íslandi?" Er hann hafði fengið vitneskju um það, sagði hann allt í einu: "Er annars nokkur heima?"

Hann var þá búinn að hitta svomarga Íslendinga, að honum fannst að þeir hlytu að vera allir komnir til Svíþjóðar.

Það er mér mikil ánægja að fá tækifæri til að vera hér viðstödd þetta 24. þing Bandalags Lúterskra Kvenna.

Það er nú orðið langt síðan ég heyrði fyrst nafnið Winnipeg, og á síðustu árum hefi ég heyrt svo mikið um þessa borg og fleiri héruð hér um slóðir, að hugur minn stefndi hingað æ meir og meir og mig fór að langa að kynnast þessu öllu af eigin sjón og reynd.

Eg býst líka við því að ég hafi erft ofurlítið af útþrá forfeðra vorra, því að alltaf frá því ég man fyrst eftir mér hefir mig langað til þess að ferðast.

Eg hefi ekki átt kost á því fyrr að komast út fyrir landsteinanna, en aftur á móti hefir það líkaverið ánægjulegt að kynnast sínu eigin landi, því þó að á Íslandi sé ekki að finna stórborgir og risamannvirki, þá er landið auðugt af dásamlegri náttúrufegurð, sem enginn gleymir, er einu sinni hefir séð.

Eg fór til dæmis ferð í fyrrasumar um Rangárvallasýslu, er ég fór í vísitaziuferð með föður mínum. Komum við á marga fræga

sögustaði, er ég hafði bæði heyrt nefnda og lesið um, svo sem Holt undir Eyjafjöllum, Breiðabólstað í Fljótshlíð, Hlíðarenda, Bergþórshvol, Keldum og marga fleiri, því að í þessu héraði eru 16 kirkjur fyrir utan Vestmannaeyjar.

Eg hafði þá einnig tækifæri til að komast upp í Heklu, sem þá var búin að gjósa í nokkra mánuði. Lögðum við af stað í bíl frá Skarði á Landi, en síðasta spölin urðum við að ganga, og tók ferðin á þriðja klukkutíma hvora leið, því að vegurinn var á köflum mjög ógreiðfær. Fórum við þó aðeins upp í hraunbrúnina, en sá hraunstraumur hafði stöðvast þá fyrir nokkrum vikum og hraunið að mestu orðið kalt. Þó var hægt að finna einstaka staði þar sem það ennþá var glóandi.

Þá, er ég nú fékk tækifæri til þess að fara utan var ég ekki lengi að ákveða í hvaða átt skyldi halda.

"Hvert ertu að hugsa um að fara", var ég spurð. — "Til Ameríku", svaraði ég.

Sumir voru að segja við mig: "Því ferðu ekki heldur til Norðurlandanna eða þá Englands. Ameríka er svo langt í burtu og þetta er nú í fyrsta sinn sem þú ferð út.

Nei, hingað hafði ég hugsað mér að fara og nú hefir sá draumur minn ræst.

Eg fór frá Íslandi 22. nóv. síðastliðinn með flugvél og kom til New York daginn eftir. Þar stansaði ég í fjóra daga en hélt þá áfram flugleiðis til Los Angeles í Californiu. Þar var ég í rúma fimm mánuði.

Eg þykist vita að margir hér inni hafi komið í þá borg og getið þið þá ímyndað ykkur alla þá breytingu er ég hlaut að verða áskynja. —

Oft hafði ég reynt að gera mér í hugarlund hvernig stórborg liti út. — Þessar stóru byggingar, allar þessar mörgu og stóru verzlanir, fólksfjöldinn sem er eins og árstraumur eftir götunum. Þú gengur stræti eftir stræti, vikum og mánuðum saman og aldrei sérðu neinn sem þú þekkir, alltaf nýtt og nýtt fólk. Og þannig var Los Angeles.

Borgin samanstendur eiginlega af mörgum borgarhlutum. Miðhluti borgarinnar er Los Angeles, en aðrir hlutar eru Burbank, Glendale, Pasadena, Hollywood, Alhambra, Huntington Park, Santa Monica og Long Beach. Það var því margt hægt að sjá og gera sér til gamans og reyndi ég líka að nota tímann eins og ég bezt gat.

Það, sem mér fannst einna dásamlegast við borgina, var veðráttan. Það er varla hægt að gera neinn mun á árstíðunum, segir fólk sem þar á heima. Þann tíma sem ég dvaldi þar, var alltaf sama blessað blíða lognið og sólskinið, aldrei of heitt eða of kalt. Og óþarfi var að líta til veðurs á morgnana. Þarna var sama veðrið og var í gær og þannig mun það halda áfram að vera.

Venjulega rignir í kringum áramótin, en í þetta sinn brást rigningin eiginlega alveg og hafði það í för með sér mikil og skaðleg áhrif á allan gróður. Um það leyti sem ég fór þaðan var farið að hitna mjög í veðri svo að hitinn nálgaðist stundum 100 gr.

Fólkið, sem byggir Los Angeles, fannst mér mjög ólíkt því, sem ég hefi áður þekkt. Yfirleitt er það mjög frjálslegt í framkomu og hugsunarhætti og nærri því eins ólíkt hvort öðru eins og það er margt. Þarna eru svartir menn og hvítir menn og allt þar á milli. Mjög mikið ber þar á blökkufólki, því það hefir fluttst þangað mikið á síðustu árum og er alltaf að fjölga. Fjölmennir eru líka Mexikanar og Kínverjar. En eitt er það, sem einkennir sérstaklega alla þessa þjóðflokka er byggja Los Angeles, er hin frjálsmannlega framkoma og áhyggjuleysi. Ekkert sem virðist skyggja á sólina og enginn virðist kvíða hvað morgundagurinn ber í skauti sínu. Því eins og segir: "Hver þjáning látin nægja sínum degi".

Í Los Angeles búa, eins og þið vitið, margt fólk af íslenzkum ættum. Þar er Íslendingafélagsskapur sem haldið hefir reglulega fundi. Því miður var ekki neinn fundur haldinn meðan ég dvaldist þar, og býst ég við að því ráði að mestu erfiðleikar í sambandi við vegalengdirnar. —

Formaður þess hefir verið hr. Pétur Felsted, en kona hans, sem ættuð er héðan frá Gimli, hefir átt við mikla vanheilsu að stríða nú tvö undanfarin ár. —

Þá býst ég við að margur hér hafi heyrt getið um hr. Skúla Bjarnason og fjölskyldu hans, sem annáluð eru fyrir gestrisni við alla Íslendinga sem til Los Angeles koma.

Loks langar mig til þess að minnast hér íslenzkrar konu, sem um mörg undanfarin ár hefir kynnt Ísland með starfi sínu, en það er Nína Sæmundsson myndhöggvari. Eg kynntist henni fyrst heima á Íslandi í fyrra sumar er hún kom þangað í boði Þjóðræknisfélagsins og íslenzku ríkisstjórnarinnar.

Hún hefir verið mjög afkastamikil í list sinni og bar sýning sú, er hún hélt í Reykjavík á síðastliðnu sumri, þess ljósan vott. Nú

í seinni tíð hefir Nína gefið sig mjög mikið af málaralistinni og er henni ekki síður lagin höndin þar, en ég veit að hún hefir í hyggju mörg ný verkefni á sviði höggmyndarlistarinnar.

Það eru vandfundnar konur eins og Nína er, en auðfundið er, þegar maður kynnist henni, að hér er mikil listakona á ferð og veit ég að ég mun ekki gleyma þeim stundum er við áttum saman.

Eg gæti hér enn talið upp stóran hóp af Íslendingum er ég kynntist í Los Angeles, en læt hér staðar numið. En eitt er víst að ég mun ætíð minnast þeirrar gestrisni og vináttu sem ég átti að mæta bæði hjá þeim og einnig hjá öðrum er ég kynntist þar.

Einn staður, sem mér varð minnisstæður þar, er kirkjugarðurinn frægi Forest Lawn. Hlýtur sá staður að hrífa alla sem koma þangað, bæði sakir fegurðar og stærðar. Fer ekki hjá því að það taki heilan dag, ef skoða á allt svo að gagni komið. En þar eð þeim stað hefir verið lýst mjög fallega fyrir ykkur áður, sé ég ekki ástæðu til þess að lýsa honum frekar.

En mig langar aftur á móti til að minnast hér á fagran útisamkomustað sem kallaður er Hollywood Bowl. Þar eru yfir sumartímann haldnir hljómleikar, allskonar, bæði hljómsveitir, söngflokkar og einstaklingar koma þar fram.

Þar eru líka á hverjum páskum haldnar guðsþjónustur sem þykja eftirminnilegar og hátíðlegar. Eg var svo lánsöm að vera þarna suður frá um páskana og átti ég kost á að hlýða á guðsþjónustu þar. En það var ekki alveg fyrirhafnarlaust.

Nína Sæmundsson, sem býr skammt frá Hollywood Bowl, hafði boðið mér og tveimur vinstúlkum mínum að koma með sér.

Þessar vinstúlkur mínar voru líka útlendingar í Los Angeles eins og ég og jafnvel komnar lengra að, nefnilega frá Bombay á Indlandi.

Nína sagði: "Þið skuluð koma kvöldið áður til mín, því við þurfum að vakna snemma til þess að komast".

Og það var orð að sönnu. Við sváfum ekki mikið þá nótt. Fórum á fætur kl. 3 um nóttina og klukkutíma síðar, er við komum þangað upp eftir, voru þá þegar margar þúsundir þar saman komnar og höfðu beðið um lengri tíma.

Guðsþjónustan átti þó ekki að hefjast fyrr en kl. 6.30 um morguninn og biðum við því þar í 2½ tíma. Alltaf var fólkið að koma. Bar það með sér bæði teppi og púða til þess að sitja á, og sumt það sem fyrst hafði komið, hafði jafnvel með sér kaffi og annað þess háttar. —

Mun ég lengi minnast þessarar stundar, því að þetta var svo ólíkt öllu því sem ég hafði áður kynnst og allt svo stórkostlegt á mælikvarða okkar Íslendinga.

Það, sem mér fannst eftirminnilegast var, að sitja þarna úti í hálfrökkrinu eða réttara sagt myrkrinu og sjá brún dagsins færast upp á himininn og myrkrið hverfa fyrir ljósinu, því að þannig er það nú alltaf í lífinu, að þó að okkur finnist stundum dimmt uppi yfir þá birtir alltaf upp um síðir.

Guðsþjónustan sjálf var með svipuðu sniði og aðrar guðsþjónustur. Sviðið, þar sem atriðin fóru fram, var mjög fagurlega skreytt blómum. Söngflokkar voru tveir, annar barnakór og myndaði hann hvítan kross á miðju sviðinu.

Hljómsveit lék og tvær kvikmyndastjörnur aðstoðuðu, leikkonan Alexis Smith og Dennis Morgan er söng einsöng. Aðalræðuna flutti dr. Martin prestur við Methodista kirkjuna.

Guðsþjónusta þessi er því, eins og ég sagði, mér eftirminnileg á allan hátt. —

Svo mun það einnig verða um margar góðar stundir er ég hefi átt í þessari ferð, bæði í Californiu og annarsstaðar og þá einnig hér í Winnipeg. Mun ég eiga eftir að meta þenna tíma eins og vert er þegar ég er komin heim aftur. Þetta ferðalag hefir verið mér góður skóli, góð reynsla á öllum sviðum, því þegar allt kemur til alls, þá er skóli lífsins strangasti skólinn, og veit ég að öll þið, sem eldri eruð, munuð hafa þá reynslu og taka með mér í sama streng. —

Þessvegna vildi ég óska þess, að þeir sem ungir eru fengju sem flestir tækifæri til þess að ferðast til annara landa og kynnast öðrum þjóðum og með því stækka sinn eiginn sjóndeildarhring.

Og sérstaklega vildi ég óska þess að þeir ungu Íslendingar, sem hér eiga heima, ættu sem flestir kost á að koma til Íslands í framtíðinni og kynnast af eigin sjón og raun því landi, er forfeður þeirra komu frá, því að þar, eins og víðar, sannast gamla máltækið: "Sjón er sögu ríkari".

Að endingu vil ég svo þakka ykkur það traust, sem þið hafið sýnt mér, og óska Bandalagi Lúterskra Kvenna allra heilla og blessunar í framtíðinni. Óska að það eigi eftir að eflast og styrkjast, svo að starf þess á komandi árum beri sem mestan árangur í hinu þýðingarmikla verki, sem það er að vinna.



Þessi mynd er af skírnarathöfn í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg, er séra Eiríkur Brynjólfsson skírði son þeirra hjóna frammi fyrir altari; Skírnarvottar voru systir séra Eiríks, systir frúarinnar, A. S. Bardal, Elín Siguðardóttir, Delores Eylands, Dr. W. Wengel og Lincoln Johnson, forseti Fyrsta lút. safnaðar.

# Séra Eiríkur og frú Guðrún Brynjólfsson

Kveðjusamsæti var haldið í Fyrstu Lútersku kirkju að kveldi 10. júní 1948, til heiðurs prestshjónunum séra Eiríki og frú Guðrúnu Við þetta tækifæri var frú Gúðrúnu flutt eftirfarandi ávörp, fyrir hönd Kvennfélaga Fyrsta Lúterska safnaðar:

Herra forseti; heiðursgestir og samkomugestir!

Kæra frú Guðrún!

Það er ætíð gleði og ánægja í því fólginn að bjóða velkomna gesti frá Íslandi. En gleðinn verður blönduð eftirsjá er við erum að kveðja kærkomna gesti, sem árlangt hafa dvalið og starfað með okkur, og sem með sínu hlýja handtaki og kærleiksfulla viðmóti hafa skapað sér pláss í allra hjörtum — yngri sem eldri.

Ekki sízt höfum við metið að fullu verðmæti hins hreina og kærleiksríka boðskaps sem fluttur hefir verið frá stólnum í Fyrstu lútersku kirkju. —

Frú Guðrún er orðin okkur kærkomin vinur, og mun það vinarband, sem tengir okkur við ættjörðina, verða æ traustara fyrir komu hennar og viðkynning þetta síðastliðið ár. Tíminn hefir liðið helzt til of fljótt, við hefðum gjarnan viljað sjá inndæla litla drenginn sem er Canada fæddur, taka sín fyrstu spor í þessu landi, en fyrst svo má ekki vera, fylgja þeim öllum hugheilar blessunaróskir allra í Fyrsta lúterska söfnuði.

Þegar frú Guðrún fyrst kom til okkar og fréttist að þrír yrðu bráðum fjórir, tóku kvenfélögin sig til og heimsóttu hana með vinargjöfum. Þá strax fundum við þann mjúka og blíða kærleiksstraum sem var inni fyrir hjá henni.

Nú erum við að kveðja. Við viljum þakka henni og manni hennar fyrir allar hinar inndælu samverustundir sem við höfum átt, og óska að gæfa og guðs náð fylgi þeim heim til ættjarðarinnar.

Við, meðlimir Kvenfélags Fyrsta lút. safnaðar og meðlimir Junior Ladies Aid, biðjum þig, frú Guðrún, að þiggja litla vinargjöf að skilnaði. —

Megi framtíð ykkar og litlu drengjanna ykkar vera björt sem sumarsólin þegar hún bregður geislum sínum yfir heimili ykkar á Útskálum. Og megi forsjónin beina braut ykkar aftur í vesturátt.

**Margrét Stephensen**

Varaforseti Kvenfélags Fyrsta lút. safnaðar í Winnipeg, og fyrir hönd Junior Ladies Aid.

---

Mr. Chairman, Honored Guests, Rev. and Mrs. Eirikur Brynjolfson, Ladies and Gentlemen:

As president of the Junior Ladies Aid and on behalf of that society, I am greatly privileged to have the honor of conveying

good wishes and kind thoughts to you, our honored guests, Rev. and Mrs. Brynjolfson, and the pleasure it affords us to participate in the gift just presented to you, Mrs. Brynjolfson. It brings happiness to us all to have the opportunity to show our appreciation of the splendid example you both have set and the meritorious work you have done.

You came to us in the time of summer and you are leaving us in the time of summer, and although the intervening time has encompassed a physical winter your personalities and spirit have maintained a continuous summer in our hearts all during your stay.

The Icelandic nation has done well by itself by sending you as representatives, for surely you have been excellent messengers of goodwill. Your people may be proud of you. We have been pleasantly and favorably impressed by your attitude, by your psychology and philosophy, by your willingness to please, which obviously inherently comes from your willingness to do for others—your solicitude for the comfort of those in distress—your compassionate and generous hearts.

Yes, your nation did well by sending you to us—did well for us too, for we have admired you from the first, Rev. Brynjolfson, for your sparkling personality, for your kindness and sincerity that radiates so strongly, for your beautiful Icelandic language.

And you, Mrs. Brynjolfson, we have learned to admire very much. You with your retiring nature, have gradually unfolded your innate beautiful qualities on better acquaintance. We have felt kindness and generosity, strength of simplicity and sincerity emanating from your personality.

You both have much charm. We are very happy to have been privileged to become acquainted with you. We should like to have known you better and that your sojourn here could have been longer.

We are sorry we must bid you farewell and bon voyage. We ask God to bless you and yours wherever you are and wherever you may go.

We hope that you will sometimes think of the J.L.A. of this church, for we will always remember you—remember you and your sons, Brynjolfur and Gudmundur—remember that Gudmundur is a Canadian and therefore sort of belongs to us.

We wish you the best there is to wish—health, happiness, peace and prosperity. And may you come again to Canada, Rev. and Mrs. Brynjolfson, Brynjolfur and Gudmundur. God Bless you all.

Louise Gudmunds,
President, Junior Ladies Aid.

June 10th, 1948.

---

Á síðasta fundi tuttugasta og fjórða þings Bandalags Lúterskra Kvenna, var frú Guðrún Brynjólfsson kjörinn heiðursmeðlimur félagsins. — Við það tækifæri ávarpaði hún þingið þannig:

Forseti, háttvirtu fulltrúar og gestir!

Eg vil láta í ljós gleði mína og þakklæti fyrir þá vinsemd og þann heiður, sem þið hafið sýnt mér með því að bjóða mér að sitja fundi þessa 24. ársþing Bandalags Lúterskra Kvenna. En þó um fram allt þakka ég þá óverðskulduðu sæmd að kjósa mig heiðursmeðlim Bandalagsins. Eg tek það líka sem augljósan vott heiðurs og sæmdar fyrir Ísland og íslenzka þjóð, þar sem ættir okkar allra eiga sínar dýpstu rætur. —

Eg hefi nú í næstum því heilt ár dvalið í þessari borg, svo fjarri föðurlandinu, ættingjum og vinum. En ástúðin, vináttan og innilegur kærleikur fólksins sem ég hefi kynnst, hafa bætt mér þetta upp og gleðin yfir því að sjá litlu drengina okkar hjónanna vaxa og þroskast, gerir þetta ár ógleymanlega hugðnæmt. Og nú síðast ástúð ykkar hér á þinginu, verður minning sem aldrei gleymist. Eg árna félögum Bandalagsins allra heilla með vaxandi starfi fyrir ríki Krists, söfnuðunum til varanlegrar hamingju.

Guð blessi ykkur allar. Hafið hjartans þakkir fyrir allt.

**Guðrún Brynjólfsson.**



All the great changes in the life of one man or in the life of the whole of humanity began and are achieved in thought only.

No matter what external changes may take place in the lives of men, no matter how men may preach the necessity of changing their sentiments and their acts, the lives of men will not change, unless a change takes place in their thoughts.

LEO TOLSTOY

# Hvernig getur konan bezt styrkt heimsfriðinn

**Erindi eftir frú Rannveigu K. G. Sigbjörnsson.**

**Flutt á þingi Bandalags Lúterskra Kvenna í Fyrstu Lútersku kirkju í Winnipeg 5. júní 1948**

**"Drag skó þína af fótum þér, því sá staður sem þú stendur á er heilög jörð".**

Þessi aldaforna setning kom ósjálfrátt í huga minn, þegar mér virtist það ljóst, að hér mundi mér gefast kostur á að tala fáein orð, og nú kemur hún með auknu afli, auknu ljósi, er ég er virkilega stödd hér. Hér er elzti, rót-dýpsti og að öllum líkindum, ávaxtaríkasti skjólmeiðurinn sem Íslendingar hafa plantað fyrir vestan haf. Hér hafa margir af vorum ágætustu mönnum og konum, lagt heilan huga og staðfasta hönd, að gróðursetningu og ræktun þessarar stórmerku stofnunar, og eru að gera það enn, svo óhætt mun að staðhæfa þetta.

Ein af þeim viðamiklu greinum, sem vaxið hafa útaf Fyrsta Lúterska söfnuði og þeim öðrum söfnuðum sem vaxið hafa af sömu rót, er **Bandalag Lúterskra Kvenna.** Sameinaðir kraftar fjölda þeirra kvenna, sem standa og starfa á sama grundvelli og undir sama merki. —

Þegar maður er því staddur yðar á meðal, er maður staddur á meðal allra lútersku safnaðanna hér vestra og yfir huga manns svífur ylmur úr fjarlægð, eitthvað um trúfestina, erfiðið og afrekin sem þær og þeir, er að standa, hafa sýnt og mætt til þess að halda byggingunni uppi. Þar sem öðruvísi hefir farið, er ekki eins aðlaðandi við að dvelja. Brothljóðin eru sjaldan skemtileg. Vafalaust orsakast þau í þessu tilfelli af vanmætti þeirra, er vildu byggja, en orkuðu ekki. Það er sú hliðin sem snýr að mér en frá ykkur.

Að lífsþróttur lúterskrar kvenfélags starfsemi er ekki að minka, heldur virðist fara vaxandi með ári hverju, um það bera störfin beztan vott. Aðeins út frá lifandi starfi hvers einstaks safnaðar og gróðri, samhygð og samvinnu, getur slík starfsemi átt sér stað.

Félagsmyndun, félagsmála-útbreiðsla, félagssamtök, þingfundir, blaðaútgáfa á báðum tungum svo sem Árdís er. Svo stórkostlega mikið, sem kemur á konurnar af beinu safnaðarviðhaldi heima fyrir ofan á alt annað erfiði dagsins, þrekvirkið mikla, sem maður heyrir og les um á seinni árum. Bygging **Sunrise Camp** og mót þau sem þar eru haldin. Margt af þessu má segja eru risaátök. — **Megi þau öll verða til sem mestrar blessunar.**

Þegar hinar ágætu konur Bandalags Lúteskra kvenna, með frú Ingibjörgu Ólafsson í broddi fylkingar, sýndu mér þá velvild og þann sóma að bjóða mér að koma hingað, hlutaðist svo til að ég talaði um spursmálið: "**Hvernig getur konan bezt styrkt heimsfriðinn?**" —

Það eru venjulega ærin takmörk á afgreiðslunni á því, sem ég tekst á hendur að gjöra, og vona því að enginn taki sér það til, þó svar mitt við þessari spurningu nái ekki inn á svo ótal mörg svið, sem aðrir kunna vel að koma auga á, en geta vel dulist mér. Eg vil leitast við að svara frá mínum sjónarmiðum svo samvizkusamlega sem ég get.

Til þess að leiða vandamál heimsins, og heiminn þar með, inn á sem bezta braut, tel ég fyrst og fremst einn veg bæði beztan og hverjum einstaklingi mögulegan: það er **bænin.** Bænin daglega fyrir lýð og land og fyrir heiminum í heild sinni. Bænin er bókstaflega það eina, sem vér eigum full ráð á. Það er fullkomnasti vegurinn sem liggur til þess máttar, sem ræður yfir mannssálinni og getur komið til mála að sveigi vilja mannsins í þá átt, sem vizkan og velvildin komast að. Máske að sumum finnist þetta seinlát aðferð, og stundum fáist ekki það sem um er beðið. Má vera að svo talist til. Vér vitum ekki æfinlega hvers biðja ber. Það er áreiðanlega stundum orsökin til þess að vér bænheyrumst ekki. En Það er trú mín að vér fáum þá eitthvað annað miklu betra í staðinn. Enn er vel að athuga það, að sannarlega síðan að menn tóku að ákalla nafn Guðs á jörðunni, þá hafa orðið miklar framfarir. Allar sannar framfarir eru bænheyrsla til þeirra, er barist hafa fyrir þeim, og þá er bænheyrsla svo og svo margra annara sem hafa óskað eftir þessum eða hinum umbótum, en áttu engin önnur ráð til þess að styðja að framgangi málanna, en að óska þess og biðja um það, svo máske eftir alt er fullkominn sannleikur í setningunni sem ég las, í blaði frá Íslandi veturinn 1930 og er svona: "Alt, sem vér höfum vonað og vænst af verðmætu lífi rætist".

Þess skal minst að þegar heimsófriðurinn 1939—'45 var í aðsígi, þá sendi Anglican kirkjan út hvert smáritið á fætur öðru, þar sem fólk var beðið um að sameina sig í bæn um það, að ófriður félli ekki á. Hvernig undirtektir voru á þessu, veit ég auðvitað ekki; hitt veit ég, að á meðan á ófriðnum stóð, var aftur og aftur gengist fyrir sameinuðu bænahaldi af Anglican kirkjunni, Lútersku kirkjunni og United Church of Canada og af flest öllum kirkjum landsins. Satt er það að ekki fékst það fyrra, ófriðurinn skall á, en máske samt, að sambænir þeirra er áttu ástvini sína í skelfingunni miklu, ásamt einstaklings bænum hafi orkað stöðvun ófriðarins. En hvað var í vegi fyrir fullri bænheyrslu? Til þess að gjöra sér ljós atriðin í upphafi ófriðarins 1939—'45 innanlands á Þýzkalandi, er gott að lesa bókina "Until that day", það er frásögn, ekki skáldsaga. Það er auðséð á frásögninni. Prests sonur, ágætur maður, að því er virðist, háskólamaður, er síðar varð prestur, segir frá, en þýzk kona í Bandaríkjunum þýddi á enska tungu. Bókin lýsir inn á áminst svið. Hún lýsir líka inn í mannssálirnar sem hún fjallar um, mjög glögglega, og inn á sviðin, sem ómögulegt er að semja frið á. —

**Næst spyrjum vér: "Hvað er heimssvið?"**

Fyrir flestum mun umhugsun um heimssviðið, skiftast í tvent. Það nálæga og það fjarlæga. Það fjarlæga eru lönd og menn, sem við finnum okkur ekki part af í fljótu bragði en áttum okkur á því við nánari athugun, að allir menn á jörðunni eru bræður, hvort sem við orkum nokkru um það eða ekki að koma þeirri hugmynd verulega að. **Hið nálæga erum við sjálf og okkar umhverfi.** Rétt núna þegar við hugsum um menn í fjarlægð sem hafi mikil ráð með höndum, þá kemur flestum í hug þeir sem sitja á rástefnunum nú, ár eftir ár að reyna að koma skipulag á heiminn. Og það gengur erfitt og veltur á ýmsu. Vel má samt athuga það, að bót er að mikil, að nokkrir menn þreyta kapp um það yfir borðin hjá sér hvernig haga skuli heimstjórn heldur en að heiminum sé öllum steypt úti blóðbað. Og með þessum fundarhöldum hefir þó orðið nokkurra ára töf fyrir nýjum ófriði, og ég er í tölu þeirra, sem vonast eftir að það takist að sneiða hjá heildar ófriði.

Á hinn bóginn virðast heimsmálin, ekki nærri eins ljúfleg viðfangs og okkur finst oft þegar við erum að heyja stofu- og eldhúsastríðin heima hjá okkur sjálfum. Hver sá eða sú sem í allri einlægni og alvöru hefir fengist við félagsmál, já og þó ekki sé

nem bara heimilsmálin, hefir reynt það, að sitt sýnist hverjum, og erfiðið er æði mikið á því að heildin vinni í eina átt, og heimsmálin eru bara endurtekning, samsteypa, af litlu eða stóru félagsmálunum heima fyrir, alveg eins og heimilin og félagsheildirnar eru ríki útaf fyrir sig.

Um þátttöku konunnar í málunum, á því sem vér nefnum heimssviðið núna, má minnast á nokkur atriði:

Mrs. Nellie McClung er kona vel þekt fyrir gáfur, velvilja og dugnað. Til skamms tíma hefir hún verið fremsti kvenn-rithöfundur Canada. Hvort aðrar eru komnar á undan henni nú, veit eg ekki. Eg efast um það þegar alt kemur til alls. Marga deilugreinina las eg eftir hana fyrstu árin, sem ég var úti á landinu, þar sem hún ávítaði bændur fyrir ónærggætni við konur sinar í landbúnaðarstritinu. Hún var berorð og tók ávalt svari konunnar. Hún dró margar skýrar og átakanlegar myndir af máli sínu. Hún sagði líka, að ef hún hefði æfinlega þvegið upp morgundiskana sína áður en hún sinti börnunum sínum bæði með því að lesa fyrir þau sögur, og annað, þá hefði þeim ekki orðið vel sint. Mrs. McClung barðist ásamt fleirum fyrir því, ár eftir ár orðið "persóna" fyrir orðið "kona" væri leitt inn í brezk lög og hún var ein þriggja kvenna sem fór til Englands, mig minnir árið 1927, til þess að mæla fyrir því máli fyrir hæsta rétti brezka veldisins, Privy Council. Málð fékk þá framgang alt í gegn fyrir þeirra frammistöðu. Svo síðan erum við, brezkar konur "persónur". —

Þetta meðal margs annars, er vottur þess, hvað mannfrelsi fyrir konuna, mentun, og þekking á málefnunum er bæði nauðsynleg og gagnleg fyrir land og lýð.

Sannarlega tel ég þetta mikið starf og til blessunar unnið. Núna fyrir 1939—'45 heimsstríðið, í þó nokkur ár, stóð Mrs. McClung í töluverður stímabraki út af International Politics, eða hemispólitíkinni. Hún dembdi líka einu og öðru yfir þingmennina heima fyrir, og fékk ýmislegar hnútur fyrir bragðið, svo sem þegar einn fremur misvitur maður, að manni fanst, gerði vissa tillögu, sagðist hún ekki vita af hverju að elding af himni, hafði ekki slegið húsið um, og manninn eins, úr þessari tilveru.

Frúin lifði í gegnum þetta alt. Rétt fyrir ófriðinn sá ég að hún var enn að segja bræðrum sínum til syndanna. Hún sagði þeim líka nokkuð fyrir verkum. Sagði þeim að ef þeir létu vissar þjóðir hafa meiri nýlendur, þá myndi alt lagast.

Það voru óðum að þykna, skýin fyrir Evrópu. Bræður Mrs. McClung létu ekki segja sér þetta tvisvar. Þeir buðu henni með sér í sérstaka nefnd sem þá var send til Evrópu til þess að reyna að laga málin. Hún skrifaði ýtarlega um ferð sína. Hún lýsti því, þegar myrkrið var að falla yfir borgirnar og allir urðu að svamla til og frá í svarta myrkri. Hún sagði að hverjum einstaklingi af tilnefndri nefnd hafði verið gefinn dálítill rafhnappur með ljósi í, til þess að hafa einhverja dálitla glóru. Þau nældu þessum hnapp í yfirhafnir sínar. En stundum mátti ekki hnappurinn vera utan á. En svo hræðilegt sem myrkrið úti fyrir var, þá var svo að sjá sem óttinn í mannshjörtunum við það sem væri að falla yfir heiminn væri enn ægilegri. Þessari ágætu konu gekk þetta mjög til hjarta. —

Svo sneri nefndin heim. Hin mikilhæfa og vel mentaða kona gat ekki fremur hnykað þeim tíðindum sem í aðsígi voru en hún gat ráðið yfir öldum hafsins. En heiður og þökk sé Mrs. McClung fyrir alt það góða sem hún hefir lagt til málanna.

Madam Shiang-Ki-Shek flutti hverja ræðuna annari fallegri hér í Ameríku til líknar landi sínu. Það má slá því föstu, að árangur og hann ekki lítill, kom af starfi hennar. Samt er nú barist í Kína enn, og það var barist í mörg ár á undan 1939—'45 ófriðnum. Þrátt fyrir það, bera sagnir þess vott, að þessi kona hafi unnið landi sínu ómetanlega blessunarríkt starf.

Frú Eleanor Roosevelt, er enn ein nafnfræg kona, sem lætur sig heimsmálin varða, af kunnum ástæðum. Hún er alstaðar velviljuð og áhugasöm. Vafalaust hefir hún starfað mikið til góðs fyrir land og lýð og heiminn í heild sinni. Hitt væri að ætlast til of mikils, að áhrif hennar, þó góð séu, kveði niður vandan sem er fyrir dyrum, en manni þykir ósegjanlega vænt um að vita af henni á betri bátnum. —

Mrs. Vijaya Lakshima Pandit af India, er sögð kona, sem er sendinefndarformaður á aðalfundi Sameinuðu þjóðanna. Það hefir oft heyrst, að hún hafi fylgt máli sínu vel fram og hefir mikinn áhuga fyrir málum síns lands. Hún hefir stundum fengið áheyrn og hana mikla. Þó slíkt væri akki nóg til þess, að laga öll landsmál hennar.

Það er eitt að gera samþyktir yfir fundarborðum Sameinuðu þjóðanna eða nokkurt annað fundarborð, htit er annað að láta einstaklinga eða þjóðir hlýða þeim samþyktum. En mikið gleðiefni

er það að vita af rétthugsandi konur taka þátt í heimsmálunum, og ég vona að þeim fjölgi sem gera það áríðandi málum síns heimilis að skaðlausu.

Þegar um það ræðir að konur yfirleitt leggi sinn skerf til heimsfriðarins, horfir maður eðlilega nær sér.

Eg skal taka það fram, að fyrir mínum augum er engin tign ákjósanlegri en sú að vera góð móðir og eiginkona. Samt hafa verið og eru til konur sem hvorugt urðu, en sem störfuðu og starfa enn, mæðrum, börnum sem öðrum, til mikillar blessunar, Florence Nightingale var ein slík. Maður gæti aldrei talið upp allar þær merku og ágætu konur sem hafa unnið heimili sínu og umhverfi ómetanlega blessunarríkt starf og á sama tíma alið upp börn sem urðu og eru ágætir borgarar mannfélagsins, fremur en maður gæti í einu stuttu erindi, til greint jafnvel það takmarkaða sem maður þekkir, til trúboðs út á við, bæði í barna-uppeldi og kirkjulegum starfa. Eg minnist aðeins á eina slíka konu, frú Láru Bjarnason; hún var fædd til forustu og var samtíðar konum sínum til fyrirmyndar í háttprýði og stjórnsemi, utan húss og innan.

Það er kunnugra en frá þarf að segja, að aðferð manna, að byggja upp löndin, er sú, að byggja, rækta, prýða sitt hið nálæga umhverfi. Það virðist því vera sanngjarnt í þessu tilliti, að leggja sem sem bezta rækt við það sem dýrast og bezt er, næst manni. Ekkert er eins dýrmætt og mannssálin. Allar hugsanir og gerðir mannanna koma frá hugarheimi þeirra. Það er sá heimurinn, sem mest er nauðsyn að rækta, sem allra bezt. Heimilið, kirkjan, skólinn og aðrar stofnanir, sem áhrifin gefa, ráða svo miklu um framtíð einstaklingsins. Af þeim ástæðum verður bæði að viðhalda þeim með gaumgæfni og gefa þeim alla þá samvinnu sem heimilið á mögulega kost á. Nýlega minti einn af okkar mikilhæfu kirkjunnar leiðtogum, séra Rúnólfur Marteinsson, okkur á það, hve nauðsynlegt væri að hafa Guðs orð um hönd á heimilunum.

Mikil ábyrgð fylgir lífinu í heild, en ég held að ábyrgðin sé hvergi meiri en á meðhöndlun barnsins. Fyrst: Barnið er maður, þó það sé lítill maður. Annað: Barnið er hjálparlaus maður í höndum þess, er það hefir meðferðis, hvort sem það er móðir þess, faðir eða einhver annar. —

Ábyrgð fullorðnu persónunnar í þessu tilliti, er ólýsanlega mikil. Til þess að tryggja varanlegan, sannan heimsfrið, verður að halda

áfram að kenna börnunum það eins og verið hefir. Að hinn krossfesti upprisni Jesús Kristur sé frelsari mannanna.

Því dýpra, sem maður lítur inni í tilveruna, því betur sér maður að það **hlýtur** að vera **sannleikurinn** tilverunnar. Þess vegna innrætir það barninu kærleika Guðs. Ekki að vér elskuðum hann að fyrrabragði heldur að hann elskaði oss, eins og í skrifinu stendur. Það framkallar í mannssálinni það bezta og dýpsta, sem guð hefir lagt þar. Það verður að innræta barninu það, að Guð sé algóður, almáttugur, alvís, alstaðar nálægur. Að í hans hendi er öll tilveran, allur tíminn, allar kringumstæður. Öll öfl tilverunnar, hverju nafni sem vér nefndum þau. Hvaða heima sem maðurinn getur hugsað sér eða ekki hugsað sér, í tíma og í eilífð, þá hlýtur Guð að vera þar máttkari og nærverandi, sé hann ákallaður í anda og sannleika. Nærverandi alla tíð, en ef vér erum á valdi þess illa, þá er ekki líklegt að vér finnum nálægð Guðs.

Guð almáttugur, faðir vor og skapari, er uppspretta allrar mildi, allrar vizku, alls sannarlegs kærleika. Hann er líka máttarins Guð. Jesús Kristur sannar oss þetta, í lífi sínu. Kenningum sínum, í dauða sínum og upprisu, og þar með þeim kenningum og fyrirheitum sem hann talaði um eftir upprisu sína, í öllum máttarverkum kærleikans hér á jörðu. Í mætti og mildi orðsins, í lífsaflinu sem lifir í sálum mannanna, tendrast og fágast við ræktun kristinnar trúar og sýnir sig fram á þessa stund.

Þar sem kristin trú dvínar, þar dvínar og framsóknarþráin, þar smá kulnar eldurinn. Þar verður lífið ömurlegt, grófgert, ósvífið. Um þetta vitna skáldin. Hér er eitt óhrekjandi og fagurt ljóð um það:

Öllum hafís verri er hjartans ís,
því hann heltekur skyldunnar þor,
Ef hann grípur þjóð, þá er glötun vís,
þá gagnar ei sól né vor.
En sá heiti blær, sem til hjartans nær,
frá hetjanna fórnarstól,
bræðir andans ís, þaðan aftur rís,
fyrir ókomna tíma sól.

Þannig söng einn af hinum mætustu og glæsilegustu sonum Íslands, Hannes Hafsteinn. Kross Jesú Krists, er mesti fórnarstóll

# KRISTÍN JÓNASSON

**30. maí 1887—16. nóvember 1947**

Þegar ég hugsa um Kristínu Jónasson, kemur í huga minn mynd er ég sá hana síðast. Það var seint á síðastliðnu hausti, á kvennfélags fundi, á heimili mínu. Hún las fyrir okkur undur fallegt kvæði og ég dáðist að hve vel hún las. Röddin var svo þýð, augun falleg og snör, andlits svipurinn hreinn og góðlegur, framkoman hógvær en ákveðin.



Kristín Jónasson

Nokkrum dögum seinna kom sú frétt, a ðhún væri dáin. Hún lézt að heimili sínu í Víðirbyggð, sextánda nóvember 1947, eftir tveggja daga legu, og var fráfall hennar sár sorg öllum hennar ástvinum og mörgu vinum.

Kristín var fædd að Jaðri í Hnausabyggð 30. maí 1887. Foreldrar hennar voru Jóhannes Jónasson frá Miðdölum í Dalasýslu og Halla Jónsdóttir frá Hamri í Mýrarsýslu.

Ung missti hún föður sinn og voru þá systkinin ellefu og efnin lítil; mun hún því snemma hafa farið að vinna. Seinna tók hún við stjórn heimilisins og bjó með bræðrum og systrum sínum meðan henni entist aldur.

Árið 1913 flutti fjölskyldan til Víðir og er það eitt myndarlegasta heimili þessarar byggðar. Hefir þar ríkt samúð og kærleikur og alúðleg gestrisni.

Nokkru eftir að flutt var til Víðir, mistu systkinin systir sína frá eiginmanni og tveim ungum börnum og voru þau bæði tekin til fósturs og hafa alist upp hjá Kristínu. Einnig var ungur, móðurlaus drengur tekin og hefir Kristín reynst þessum þrem börnum sem ástrík og umhyggjusöm móðir. Heita þessi börn Kristín Halla Halldórson —Mrs. B. Finnsón—, Jóhannes Halldórsson og Þorsteinn Alfred Hibbert.

Systkini Kristínar, nú á lífi, eru Jónas, Einar, Hermann og Guðrún öll heima, Hjörtur bóndi í Víðirbygð, Þurríður —Mrs. B. O. Ólafson— Medicine Hat, og Ingigerður —Mrs. Kaye— Cranbrook, B. C.

Í veikindum var oft leitað til Kristínar, því hún var sérstaklega lagin að hjúkra þeim, sem sjúkir voru eða bágt áttu. Hún var sannkristin kona, vann af áhuga að velferðarmálum byggðar sinnar og kristnum söfnuði til eflingar. Hún kenndi á sunnudagaskóla og var meðlimur Kvennfélagsins Ísafold í mörg ár. Öll hennar framkoma lýsti göfugt og óeigingjarnt hugarfar, og sífelda viðleitni, öllum til góðs, er hún átti samleið með.

Bygðarfólk hér mun ætíð minnast hennar með ást og þakklæti.

Vertu sæl, göfuga, íslenzka sál! **A. A.**



## GÆT ÞÚ MÍN

Hvert augnablík til stuðnings þarf eg þig,
og þú einn megnar falli að verja mig;
mun nokkuð geta hlíft sem höndum þín?
Í hrygð og gleði, drottinn, gæt þú mín!

S.J.J.

---

Ships that pass in the night, and speak to each other in passing,
Only a signal shewn, and a distant voice in the darkness;
So, on the ocean of life we pass and speak to one another,
Only a look and a voice, then darkness again and a silence.

"Tales of a Wayside Inn."

Longfellow.

# ÁSTA JOHNSON

**F. 14. september 1878. — D. 26. desember 1947**

I.

Blómin á foldinni fölna, falla í dvala og fela sig al-lífinu til varðveizlu, al-lífinu, sem aldrei skeikar á endalausri leið. Vér söknum blómanna, en minnumst þess, að vér fáum að sjá þau aftur að vori, þegar þau í endurnýjaðri fegurð, angan og ljóma, umkringja oss og "Segja oss söguna aftur, söguna þá í gær".



**Ásta Johnson**

Mannlífið, eins og blómin, er lögmáli lífsins háð. Það vex og þroskast, blómgast og ber ávöxt og nýtur unaðs, gleði og ástríkis í ótal myndum á langri leið. En, svo fölnar það og hverfur, flytur burt, út á hafið mikla, yfir á landið handan landsins og hverfur oss um stundar sakir. En vér sitjum eftir hrygg í huga af því vér skiljum ekki leyndardóma lífsins, ráðgátur tilverunnar og dauðans.

Ungur má, en gamall skal, er íslenzkur orðskviður. Já. Oss er það ljóst. Engu að síður dregur það skuggatjald sitt fyrir sálarsýn vora, ljósið, ylinn og útsýnið með oss. Vér drjúpum höfði af söknuði. Viðskilnaðurinn við ástvin og ævifélaga, er oft sár. Söknuðurinn mikill. Það er eðli vort að sakna. Þrátt fyrir það finnum vér til ylgeisla mitt í söknuðinum, er vér lofum innsýn andans, að bregða á fortjald huga vors, myndunum förgu af viðkynning og samneyti við félagan góða, sem horfinn er.

II.

Ásta var fædd í Múlakoti í Mýrarsýslu, 14. september, 1878. — Foreldrar hennar voru, Jóhannes Magnússon og Kristín Jónsdóttir, þá búsett í Múlakoti. Ung að aldri fór Ásta með foreldrum sínum

að Árnakoti í Borgarhreppi og ólst þar upp, þroskaðist að vizku og vænleik og varð ein af glæsilegustu ungmeyjum þess héraðs. Þann þriðja október, 1896, giftist Ásta eftirlifandi manni sínum, Helga Jónssyni frá Eskiholti í Borgarfirði.

Aldamóta árið, fluttu þessi ungu hjón búferlum til Vesturheims. Staðnæmdust í Winnipeg og áttu þar heima alla sína æfi.

Allskonar mótstraumar og tálmanir mæta þeim, sem flytja í aðra heimsálfu, óþekktir og málvana. En æskan, orkan, trúin og traustið á framtíðar möguleikana, slítur öll bönd, þegar framsæknin hvetur og hönd fylgir hendi í sókn til sigra.

Ásta var engu síður en maður hennar, framúrskarandi dugleg, ráðdeildarsöm og sístarfandi. Enda kom það sér vel, því heimilið varð bráðlega stórt og krafðist mikils. Helgi og Ásta eignuðust sjö börn, þrjá drengi og fjórar dætur, öll hin mannvænlegustu.

Ásta unni heimili sínu og kirkju. Hún hafði yndi af að fegra heimilið sitt og gjöra það smekklegt og aðlaðandi fyrir mann sinn og börn og alla sem að garði hennar báru, því risna var þar mikil og höfðingslund,, þótt stundum væri ekki af miklu að miðla.

Ásta var trygglynd og traust sem bjarg og hjartagóð að sama skapi, sem heimili þeirra hjóna oft bar vitni um. Enda eignaðist hún brátt fjölda góðra vina, sem dáðu hana og virtu.

Jafnvel þótt mörgu væri að sinna heima fyrir, var starf Ástu einnig mikið utan heimilisins. Kirkjan hennar þurfti stuðnings við og starfsorku marga. Hún gekk því í Kvennfélag Fyrsta Lútherska safnaðarins og starfaði þar með sinni óþreytandi elju og dugnaði um fjöldamörg ár, allt til hinnar síðustu stundar, er orkan leyfði henni það ekki lengur. Ásta var elskuð og virt af öllum sem kynntust henni. Hún var glæsileg kona í sjón, með göfugt hjartalag. Hún andaðist 26. desember, 1947, og var jarðsungin frá Fyrstu Lúthersku kirkju 30. desember, 1947.

III.

Og nú ertu farin, þú kona, móðir, sem mótaðir börnin þín. Tendraðir fyrsta ástargeislann í augum þeirra. Töfraðir fram fyrsta brosið af vörum þeirra með ástríki þínu og innri sýn, kenndir þeim fyrsta sporið og kvattir þau fyrst til starfs og dáða og lýstir þeim fram á veginn.

Heilsteypt var heimili þitt og hugum bjart, friðsamt og auðugt af heilbrigðri glaðværð og risnu. Þar var gott að koma, gott að

gista og gaman að dvelja. Þar voru allir heima hjá sér. Þar réði ríkjum, samúð, eining og ylríki til allra.

En nú ertu horfin af heimili því og höndin þín búin að starfa. Þú ert horfin yfir hafið mikla, yfir á landið ókunna, sem bíður vor allra handan við móðuna miklu.

Já. Þú ert horfin, en samt ertu með oss. **Móðir aldrei deyr.** Minningin lifir, ástin, samúðin og afrekin, sem margfaldast með afkomendum þínum frá kyni til kyns.

**Davíð Björnsson.**



## MRS. ARNBJÖRG JOHNSON

**F. 1873. — D. 1947**



**Mrs. Arnbjörg Johnson**

Mrs. Arnbjörg Johnson dó í semptember mánuði 1947 eftir langa legu. Hún var meðlimur Kvennfélags Fyrsta Lúterska safnaðar, hæglát og blíð í framkomu; hún vann vel og dyggilega í félaginu. Hún var fædd 27. nóvember 1873 á Dagverðareyri við Eyjafjörð. Foreldrar hennar voru þau hjónin: Jón Oddson og Ingibjörg Sigurrós Ingjaldsdóttir. Arnbjörg flutti til Winnipeg árið 1888 og giftist eftirlifandi manni sínum Thorláki Johnson árið 1895. Þau eignuðust eina dóttir, Lily, Mrs. A. A. Wilkinson, búsett í Winnipeg. Tveir bræður Arnbjargar lifa hana: Oddur Oddson, Langruth, Man., og Sigurjón Oddson, Winnipeg. Móðir Thorláks Johnson var Rebekka Johnson, ein í hópi þeirra er stofnuðu fyrsta félag íslenzkra kvenna í Winnipeg. — Sjá mynd á bls. 44 í Árdís 1946.

# HILDUR JÓNÍNA FINNSON

**23. febrúar 1880—19.desember 1947**

Hildur andaðist að heimili dóttur sinnar og tengdasonar, Mr. og Mrs. J. B. Jóhannson í Árborg 19. desember 1947, eftir langvarandi og erfiðan sjúkdóm. Hún var fædd að Víkingsstöðum við Íslendingafljót, 23. febrúar 1880. Foreldrar hennar voru hjónin Sigfús Pétursson og Þóra Sveinsdóttir.



**Hildur J. Finnson**

Hildur hlaut skólamentun meir en alment gjörðist á þeim árum, enda var hún ágætum gáfum gædd. Um tíma var hún barnaskólakennari þar til hún giftist eftirlifandi eiginmanni sínum, Sigurði Finnsyni. Þau eignuðust 10 börn, átta af þeim eru á lífi, mannvænleg og vel gefin.

Sigurður og Hildur Finnson voru frumbyggjarar í Víðibyggð og á þeim fyrstu árum munu þau hafa haft af mörgum erfiðleikum að segja, en Hildur var þróttmikil, sí-starfandi og glaðlynd. Hún söng við vinnu sína og hennar yndislega söngrödd veitti mörgum fagrar ánægjustundir.

Hún tók mikinn og góðan þátt í öllum félagsmálum byggðarinnar og vann af áhuga og einlægni til styrktar Lúterska söfnuði sínum. Hún var ein af stofnendum Ísafoldar kvennfélags og starfandi meðlimur félags þess í þrjátíu ár með snildarlegum dugnaði.

Glaðværð og gestrisni ríkti á hennar stóra heimili og aldrei var svo margt né störfin svo mikil að ekki mætti sinna þeim sem bar að garði, eða líkna þeim sem hjálpar þurfti.

Víðirbyggðar-fólk mun seint gleyma þessari göfugu konu. Síðasta erindið í kvæði er Guttormur Guttormsson orti til hennar, að henni látinni, túlkar það sem við, er áttum samleið með henni, vildum segja:

Það okkur er til rauna,
Hve ógjarnt er að launa.
Við könnumst við það klökk.
En fyrir alt sem ertu
Um eilífð blessuð vertu!
Og haf þú okkar hjartans þökk.

A. A.

---

## MRS. HALLFRÍÐUR STEPHENSON

**19. júlí, 1881—11. ágúst, 1947**

Oft leggja menn blóm á kistur hinna framliðnu. Þau tákna kærleika gagnvart þeim, sem kvatt hafa. Það var mikið af blómum þegar Mrs. Hallfríður Stephenson var kvödd í hinzta sinn, í Fyrstu lútersku kirkju, laugardaginn, 16. ágúst s. l. ár. Hér er gerð tilraun til að leggja fram örlítið minningablóm.


**Mrs. Hallfríður Stephenson**

Hallfríður var fædd á Íslandi fyrir 66 árum, dóttir þeirra hjónanna Ólafs og Guðrúnar Freeman. — Með þeim og systkinum sínum, kom hún til Winnipeg, barn að aldri, og hér dvaldi hún langmestan hluta æfinnar. Hún dafnaði í skauti kristinna foreldra og þroskaðist til nytsemda og lífernisfegurðar.

Fyrir 45 árum giftist hún Guðlaugi L. Stephenson og áttu þau heima í Winnipeg. Með sameinuðum kröftum lögðu þau rækt við heimili sitt. Hann veitti því örlátlega það sem það þarfnaðist og hún annaðist það með ráðdeild og snild. Þar var mikið af gestrisni og hjálpsemi. Þau voru meðlimir í Fyrsta lúterska söfnuði og studdu hann drengilega. Hún var meðlimur

í kvennfélagi safnaðarins og hjálpaði því með velviljuðum höfðingsskap. Þeim fæddust 3 synir og 2 dætur: Harald, Gordon, Robert, Lily og Dorothy, og heimilið lagði þeim í té þroska til nytsams æfistarfs. — Hallfríður var ástvinum sínum öllum einstaklega nákvæm. —

Síðastliðin 2 eða 3 ár voru þau hjónin á vetrum hjá tengdasyni og dóttur þeirra, Mr. og Mrs. Ferguson, í Vancouver, í British Columbia. Hún var þá farin að kenna sjúkdóms þess er leiddi hana til bana. Hún andaðist þar 11. dag ágúst mánaðar. Líkið var flutt til Winnipeg og kveðjumálin flutt þar í heimakirkju hennar og Brookside-grafreit. Fólksfjöldi mikill var við kveðjuathöfnina í kirkjunni. Séra Eiríkur Brynjólfsson las Biblíukafla, og sá sem þessar línur ritar, flutti kveðjumálin. Fjöldi fólks fylgdi með út í grafreitinn. Alt bar vott um vinsældir hinnar burtkölluðu og víðtækara samhygð með hennar nánustu í djúpri sorg þeirra.

Jesús sagði: "Þetta er mitt boðorð, að þér elskið hver annan". Sú, sem vér kveðjum, hélt sér fast við þetta boðorð alla æfi. — Blessuð sé minning hennar.

**Rúnólfur Marteinsson.**



The world is a looking-glass and gives back to every man the reflection of his own face. Frown at it, and it in turn will look sourly at you; laugh at it, and with it, and it is a jolly kind companion.

W. M. THACKERY

---

Nothing is lost; even unwritten thoughts do their work.

Evil thoughts shape the character, and spread disastrous consequences, for they are positively infectious. We are thus all of us fearfully responsible.

G. F. WATTS

---

He who is slow to anger is better than the mighty; and he that ruleth his spirit than he that taketh a city.

Proverbs 16:32

## GUÐNÝ SESSELJA FREDERICKSON

**29. október 1856—9. maí 1948**

Þann 9. marz 1948 andaðist í Winnipeg, frú Guðný Sesselja Frederickson, ekkja Friðjóns, kaupmanns Frederickson, liðlega níræð að aldri. Hún var fædd 29. okt. 1856, dóttir Sigurðar Steinssonar að Harðbak á Melrakkasléttu og konu hans Þórunnar Stefánsdóttur Scheving. Hún fluttist með manni sínum vestur um haf árið 1873. Dvöldu þau hjón fyrst á ýmsum stöðum í Austur-Canada og Bandaríkjunum, en lengstan hluta æfinnar áttu þau heima í Manitoba. Þau hjónin voru með hinum fyrstu íslenzku land nemum er grundvöll lögðu að byggðum Nýja Íslands. Þau voru um hríð á Gimli og einnig við Íslendingafljót, þar sem nú er Riverton; var maður hennar einn af leiðtogum landnámsmanna og fyrsti kaupmaður nýlendunnar; tuttugu ár stóð heimili þeirra í Glenboro þar sem hann rak vezlun.



Guðný S. Frederickson

Frú Guðný var fremur smávaxin kona, fríð ásýndum og framúrskarandi prúð í framkomu; hún var heimiliselsk kona, stjórnsöm húsmóðir og tók einlægan þátt í kirkjulegri starfsemi. Heimilislífi þeirra Frederickson-hjóna er fagurlega lýst af séra Friðrik J. Bergman í Almanaki Ólafs S. Thorgeirssonar: 1908.

"Heimili þeirra hjóna hefir verið fyrirmyndar heimili að öllu, sem lengi mun í minnum Vestur-Íslendinga, þeirra er þektu. Hafa þau hjón verið samanvalin að háttprýði, snyrtimensku og öðrum mannkostum, svo alt það er öðru má til gildis telja, er jafnsatt um hitt, og hefir heimili þeirra ávalt verið eins og sólskinsblettur í heiði". —

Þeim Frederirkson hjónum varð fimm barna auðið; tveir drengir dóu ungir, en þrjú lifa. Elzt þeirra er frú Aurora, ekkja Tómasar H. Johnson, fyrrum dómsmálaráðherra í Manitoba, búsett í

Bandaríkjunum; Kári, búsettur í Toronto og Haraldur hér í Winnipeg.

Útför þessarar merku landnámskonu fór fram frá Fyrstu lútersku kirkju undir umsjón séra Rúnólfs Marteinssonar og séra Eiriks Brynjólfssonar, að fjölmenni viðstöddu; hún var lögð til hvíldar í Brookside grafreit. I. J.



## GUÐRÚN BARDAL

**20. júní 1873—20. nóvember 1947**

Guðrún Bardal dóttir hjónanna Tómasar Ingimundssonar og Guðrúnar Eyjólfsdóttir, var fædd í Árnessýslu á Íslandi, ein af ellefu börnum foreldra sinna, sem nú eru öll dáin nema Guðrún, kona Böðvars Johnson að Langruth, Man.



**Guðrún Bardal**

Þegar Guðrún Bardal var þrettán ára, fluttu foreldrar hennar með fjölskyldu sína til Canada, og bjuggu fyrst framan af í Þing valla nýlendunni, í Sask., en síðan á Big Point, við Manitobavatn. —

Ung að aldri, settist Guðrún að í Winnipeg og vann að saumaskap þar til 22. maí 1901 að hún giftist Halldóri S. Bardal, og tók að sér tvær dætur Halldórs af fyrra hjónabandi. Ellefu börn fæddust þeim hjónum, átta synir og þrjár dætur, myndarlegt og gott fólk, sem öll lifa móður sína. Einnig áttu þar heimili, um fjörutíu ára skeið, Guðrún Sigurðsson, tryggur heimilisvinur þeirra hjóna, og systurdóttur hennar, sem ólst upp með hinum börnunum, sem einn af meðlimum fjölskyldunnar.

Þetta var mannmargt heimili þó engir aðkomandi væru. — En

dyrnar stóðu ætíð opnar hjá Guðrúnu og Halldóri Bardal fyrir vinum og þeim sem þurfandi leituðu til þeirra. Gestrisnin sem þar tók við manni, innileg, hlý, látlaus, gleymist engum sem hennar varð aðnjótandi. Kærleikurinn milli hjóna, milli foreldra og barna, lýsti sér svo frábærilega vel í allri framkomu á heimilinu.

Strax þegar Guðrún kom til Winnipeg, tók hún til starfa í Fyrsta lúterska söfnuði, sem kennari við Sunnudagaskólann, meðlimur söngflokksins, og til æfiloka starfandi í kvennfélagi og í missions félagi þess safnaðar. Alt hennar starf, bæði sem húsmóðir eða á sviði safnaðarins, var unnið af heilum og innilegum kærleikshug sem upptök sín átti í hennar einlægu og hreinu trú á Guð sinn og Frelsara.

Þú móðurblíða milda sál
Svo margur við þitt kærleiksbál.
Sig vermdi í kulda kífsins.
Svo heit og sönn og trygg og trú
Mót táli heimsins stríddir þú
Og leiðst svo inn til lífsins.



Our birth is but a sleep and a forgetting.
The soul that rises with us, our life's star,
Hath had elsewhere its setting,
And cometh from afar;
Not in entire forgetfulness,
And not in utter nakedness,
But trailing clouds of glory do we come
From God, who is our home.
Heaven lies about us in our infancy;
Shades of the prison house begin to close
Upon the growing boy,
But he beholds the light, and whence it flows,
He sees it in his joy.

WILLIAM WORDSWORTH LONGFELLOW

# Skýrsla forseta

Kæru félagssystur!

Ennþá hefir okkur verið leyft að starfa saman í eitt ár síðan við nutum samvistar á þingi í sumarbúðum Bandalagsins síðastliðið sumar. Þar vorum við gestir þriggja kvennfélaga úr Norður-Nýja-Íslandi. Nutum þar mikils, og þó við værum sérlega óheppnar með veður, var dvölin í sumarbúðunum hin ánægjulegasta.



**Mrs. Ingibjörg Ólafson**
Forseti Bandalags Lúterskra Kvenna

Eg vildi þakka vinsamlega og all-ítarlega ritgjörð eftir ritstjóra kvennasíðunnar í Lögbergi um heimsókn hennar til Sumarbúðanna á síðastliðnu sumri. — Gerði hún sér ferð til að vera viðstödd vígslu minningar skálans, sunnudaginn 22. júní, og taldi ekki eftir sér að ganga um landareign okkar og ofan að vatninu þó blautt væri og nokkur rigning. Athugasemd þá sem hún gerði við nafn staðarins, hafa fleiri minst á við mig munnlega, nefnilega að nafnið hefði átt að vera íslenzkt; finst mér því ekki óviðeigandi að gera hér grein fyrir afstöðu þeirra, sem nafið völdu:

Veturinn 1945—1946 hafði framkvæmdarnefndin rætt um nafn á tveimur fundum, en enga ákvörðun tekið. Á þinginu í Argyle bygð sumarið 1946, var málið lagt fyrir þing. Öllum erindrekum var falið að íhuga málið og skrifa eitt eða fleiri nöfn á ensku eða íslenzku og afhenda nefnd sem kosin var á þinginu. Nefndina skipuðu sjö konur. Var Mrs. V. J. Eylands formaður hennar, hinar konurnar voru ein úr hverri bygð, þar sem Bandalagið á ítök. — Eftir að hafa yfirfarið öll nöfnin og íhugað málið á tveimur fundum, bar nefndin fram þá tillögu, að nafnið sem kosið væri yrði

"Sunrise Camp". Málið var rætt og tillaga kom þess efnis, að bæta við **Lutheran**, svo nafnið yrði **Sunrise Lutheran Camp.** Var það samþykt af öllum greiddum atkvæðum.

Það virtist ekki vera spursmálið hvort nafnið væri enskt eða íslenzkt, sem konurnar höfðu áhuga fyrir, heldur hitt að nafnið túlkaði þetta tvennt að það væri framtíðar heimili æskunnar og að það væri lútersk stofnun. Það var ekki í huga okkar nein löngun til að reisa okkur sjálfum þar bautastein sem bæri þess vitni um ókomin ár að við værum íslenzkar. Heldur hitt, að staðurinn mætti vera helgaður kristindómsstarfi meðal æskulýðs þessa lands, því ekki úr vegi að nafnið væri á máli þessa lands. Hver, sem heimsækir staðinn verður ekki dulinn þess, að hér hafa Íslendingar verið að verki: nafnaskrá hinna föllnu Íslendinga í minningarskálanum, minningargjafir skálans, skrautrituð bók með nöfnum landnema í hvers minningu að svefnskáli var gefin, íslenzkt bókasafn í einum skáp, íslenzkt hannyrðasafn o. fl. — Ekkert er fjær okkur, sem þessum félagsskap tilheyrum, en að vilja sýna lítilsvirðingu fyrir því sem íslenzkt er. Við unnum því, en við unnum engu síður landinu okkar, Canada eða Bandaríkjunum. Við þráum að starf okkar mætti færa blessun til æskulýðs þessara landa.

Starf sumarbúðanna síðastliðið sumar var margþætt og ánægjulegt. Að meðtöldum erindrekum þingsins, dvöldu nokkuð á þriðja hundrað manns þar lengri eða skemmri tíma. Þar mynduðu Sunnudagaskóla kennarar samband sín á milli; mætir sá félagsskapur þar aftur í þessum mánuði. Þar héldu prestar kirkjufélagsins fundi í tvo daga; höfðu prestafundir fallið niður í nokkur ár áður. Vonum við að þeir verði þar gestir okkar aftur í sumar. Nefnd sú sem kosin var á þingi í fyrra, Board of Directors, hefir starfað með áhuga fyrir sumarbúðirnar. Mun sú nefnd leggja fram ítarlega skýrslu fyrir þingið.

Sunnudagaskóla nefnd Bandalagsins hefir verið starfandi með áhuga þetta ár eins og oft fyrr. Forstöðukona nefndarinnar, Mrs. B. Bjarnarson, mun leggja fram skýrslu yfir það starf.

Árdís var gefin út með sama hætti og áður, síðastliðið haust. Mun ritið vera uppselt eins og að undanförnu. Þetta ár höfðu þær Mrs. O. Stephensen og Mrs. B. S. Benson, ritstjórn með höndum. Mrs. Finnur Johnson var ráðskona blaðsins. Aðstoðuðu hana þær Mrs. M. M. Jónasson, Árborg og Mrs. Lauga Jóhannesson. Skýrsla yfir fjárhag blaðsins verður lögð fram á þinginu. Við hörmum það allar

að heilsa Mrs. Guðrúnar Johnson hefir á þessu ári verið á völtum fæti. Árdís á henni og manni hennar mikið að þakka. Þau hafa borið hag blaðsins fyrir brjósti á sérstakan hátt. Við erum allar með einum huga að þakka þeim hjónum það starf um leið og við þökkum Mrs. Johnson alt hennar starf í þágu bandalagsins. Við söknum þess meira en orð fá lýst, að hún er nú fjarverandi. Hefir hún setið öll okkar þing nema eitt og stjórnað 11 þeirra. Við biðjum Guð að blessa hana og ástvini hennar.

Ennþá hefir laganefndin ekki lokið strafi sínu. Hin nýju lög, sem lesin voru á síðasta þingi, hafa verið yfirfarin af lögmanni. Vonum við að geta lagt þau fyrir þingið til samþyktar. Verða þau þá síðar send til allra félaga, tilheyrandi bandalaginu.

Eg vildi leiða athygli að því, að nefnd er starfandi í félagi okkar, sem hefir það með höndum að safna bókum fyrir Sumarbúðirnar. Við skulum allar taka saman höndum til þess að eignast þar úrval af unglingabókum, einnig aðrar fræðibækur. Við höfum nokkrar íslenzkar bækur þar. Það gladdi mig þegar fyrstu þrjár íslenzku bækurnar voru sendar til mín daginn eftir að Sumarbúðirnar voru vígðar: Biblían, sálmabókin og passíusálmarnir. Landnemarnir íslenzku höfðu flestir þessar þrjár bækur í koffortinu þegar þeir lögðu til hafs, til landsins í vestrinu. Það spáir góðu og með þessum bókum byrjuðum við hið íslenzka bókasafn sumarbúðanna. — Þar eru einnig saga Íslendinga í Vesturheimi og ýmsar fleiri. — Gleymið ekki að gefa góðar bækur í þetta safn.

Sömuleiðis vildi ég leiða athygli þingsins að því, hvort við sæjum okkur ekki fært að mynda sjóð á þessu þingi sem notaður væri til að borga fyrir fátæk börn yfir eitt tímabil að sumrinu í Sumarbúðunum. Raddir hafa borizt úr ýmsum áttum, hvort ekki væri hægt að taka það spor. Hingað til hafa allir peningar verið notaðir til að byggja upp staðinn og má það heita merkilegt að alt er skuldlaust. Margt er enn ógert, það veit ég vel og mikils þarf ennþá með, en ég held að það yrði til blessunar að við mynduðum þennan litla sjóð sem ýmsir mundu bæta við ár frá ári.

Nú hafa kvennfélögin fengið tveggja ára hvíld frá fundarprógrammi Bandalagsins. Séu einhverjir sem óska eftir að á því sé byrjað á ný, gerir þetta þing ákvæði í þá átt.

Vildi ég svo þakka þeim kvennfélögum sem gefið hafa á þessu ári í sumarbúðasjóðinn og minningarsjóðinn. Mörg félög hafa nú þá reglu að gefa árlega til þessa málefnis. Veit ég að í framtíðinni

muni það verða föst regla hinna ýmsu félaga að hafa eitt peninga-fyrirtæki árlega fyrir sumarbúðasjóðinn.

Við gleðjumst yfir að vera gestir hinna tveggja kvennfélaga Fyrsta lúterska safnaðar. Hér höfum við svo oft áður átt góðu að mæta. — Það eru nú fimm ár síðan þing okkar var hér síðast. Hafa þau ár verið viðburðarrík í sögu félagsins. Við þökkum drottni leiðsögn og styrk og felum honum framtíðina. Þegar við erum hér staddar, minnumst við þess með mikilli hrygð að forseti hins eldra kvennfélags þessa safnaðar hefir um nokkurt skeið átt við sjúkdóm að stríða, frú Ingiríður Jónsson. Við biðjum Guð að gefa henni fullan bata og veita styrk fyrir hverja líðandi stund.

Við þökkum vinarþel prestshjónanna sem eru hér starfandi, Séra Eiríks og frú Guðrúnar Brynjólfsson, og óskum þeim og hinum ungu sonum þeirra allrar blessunar. Við minnumst með kærleika Séra Valdimars og frú Lilju Eylands og óskum þeim farsællrar heimkomu. —

Svo legg ég mál þessa þings í ykkar hendur. Hér mun ríkja hinn sami andi vinarþels og ljúfrar samvinnu og ávalt hefir ríkt á þingum okkar. Eg þakka allan kærleika auðsýndan mér á þessu ári, alla samvinnu í undanfarin ár. Þess bið ég ykkur að hin sama tiltrú kærleikur og áhugi fyrir starfi falli í skaut hverri sem leiðsögn hefir með höndum í okkar kæra félagi.

Guðs blessun mun ávalt hvíla yfir starfi Bandalags Lúterskra Kvenna. —

Selkirk, 2. júní 1948

**Ingibjörg J. Ólafsson.**

# Report of the Secretary of the Board of Directors of Sunrise Lutheran Camp

The Board of Directors of Sunrise Lutheran Camp at Husavick, Manitoba, was elected at the convention of the Lutheran Women's League held at the camp in June, 1947. This board consists of sixteen members, ten of whom are women and six men, with the president of the Lutheran Women's League an ex officio member.

The physical, spiritual and financial aspects of the camp are in the hands of this board. This is a big undertaking and all the members of the board are fully aware of their duty to further this worthy project and continue to build and develop the camp for the future benefit of our young people.

The board had its first meeting on the day it was elected, June 25, 1947, following the closing session of the Lutheran Women's League. The officers of the board are as follows. Chairman, Mr. S. O. Bjerring, Winnipeg; Recording Secretary, Mrs. A. H. Gray, Winnipeg; Treasurer, Mrs. Anna Magnusson, Selkirk. The board was divided into three committees: financial, recreational and educational. The financial committee consists of the following members: Mr. S. O. Bjerring, Mr. Sv. Palmason, Mr. H. Sigurdson, Mr. Martein Jonasson, Mrs. Anna Magnusson, Mrs. Fjola Gray. The recreational committee consists of: Dr. Eyjolfur Johnson, Mrs. B. Bjarnason, Mrs. Karl Thorsteinson, Mrs. H. S. Erlendson. The educational committee is made up as follows: Rev. Egill Fafnis, Mrs. S. Sigurgeirson, Mrs. S. V. Sigurdson, Mrs. S. Arason, Mrs. H. G. Henrickson and Miss Inga Bjarnason.

There have been five meetings during the year, with good attendance at every meeting and I feel this should be commended as we must take into consideration that thirteen out of the seventeen members live at rural points in Manitoba and one in the United States, and the fares are taken care of, by the members themselves.

Under the supervision of Dr. Eyjolfur Johnson, Selkirk, Man., groups of men visited the camp on two occasions last fall to clear

the grounds and cut grass and dead branches. A tremendous amount of work was accomplished on both these occasions. This week Dr. Johnson and Mr. Bjerring brought men down to the camp to do preliminary work in connection with putting up of the fence which is to be erected along the west and north sides of the property and to do other repairs.

This spring we felt it necessary to build another small hut, which is to be used as a hospital hut. It is much better to have the hospital nearer the staff house, it would be more convenient and entail less walking. As a leaders' hut was needed, the old hospital hut will be used as a leaders' hut, situated between the two dormatories. This meant an outlay of money but we trust that our members will realize the necessity of this and stand behind us in procuring the financial assistance we need.

We had a leadership training course in May of this year and, although our attendance was rather small, we feel that it is a beginning of what will be of tremendous value to young men and women desiring to become future leaders and councillors in our camp and various communities. This is a very important factor of camp work.

We are respectfully soliciting blankets and quilts, pillows, dish-towels and any useful articles that may be used at camp. We are very grateful for a large meat-chopper that was given to the camp this spring by a member from Glenboro. Always keep the camp in mind and continue to sponsor efforts to raise money for it.

Owing to lack of funds we have not been able to finish the interior of the Memorial Hall, nor do other much-needed improvements, such as preparing a proper recreational field and beautifying the grounds.

We trust that each community will continue to put forth every effort to support and improve our camp.

In closing, the board wishes each aid of the Lutheran Women's League the best in all their endeavors. May God's blessing ever guide you in your work.

Respectfully submitted,

Fjola Grey, Rec.-Sec. of Board of Directors.

# Skýrsla Sunnudagaskólanefndar Bandalags lúterskra kvenna

**Flutt af Elizabeth H. Bjarnarson**

Á þingi Bandalags Lúterskra Kvenna, sem haldið var í fyrra, voru eftirfylgjandi konur kosnar í Sunnudagaskóla-nefnd:

Mrs. B. Bjarnarson.
Mrs. S. Sigurgeirson.
Mrs. H. G. Henrickson.

Nefndarfundur var haldinn skömmu á eftir þingi, og var ákveðið að nefndarkonur, ásamt forseta Bandalagsins, tækju sér ferð norður með Manitobavatni.

Að morgni 31. ágúst lögðum við Mrs. Ólafson af stað frá Winnipeg áleiðis til Silver Bay, með það áforn. að kynnast systrum og bræðrum af lúterskri trú og styðja að stofnun á Sunnudagaskólum meðfram Manitobavatni. — Dagurinn var indæll og viðtökur á leið norður þær beztu.

Klukkan 3 e.h. komum við til Gíslason's sistkynanna á Silver Bay. Þar hafði Mrs. Skúli Sigurgeirson, sem var þá stödd þar norður frá með manni sínum, útvegað okkur verustað. Þar var okkur tekið með alúð og íslenzkri gestrisni frá því fyrsta er við stigum inn í þetta hús og þar til við lögðum á stað heim.

Fyrsta heimilið er við heimsóttum var hjá Mr. og Mrs. Björn Johnson. Konan er af enskum ættum og hafði stundað Sunnudagaskólastarf í "United"-kirkju í Winnipeg, og var henni annt um að sunnudagaskólastarf væri byrjað í héraðinu. Hún lét í ljós að skólakennarinn á Ralph Connor skóla, Evelyn Sigurðson að nafni, væri vís til að hjálpa með sunnudagaskólann.

Meira var ekki hægt að gjöra þann daginn, því kveldverðartími var komin og við mjög þreyttar.

Eftir hádegi á sunnudaginn fórum við til messu á Darwin skóla. Messan var vel sótt og höfðum við þar fund með fólkinu eftir messu. Mrs. Sigurgeirson hafi undirbúið þennan fund með því að auglýsa hann út um bygðirnar. — Mrs. Ólafson talaði fyrir starfinu og

var hlustað á hana með athygli. Þetta starf var auðsjáanlega kært, en konur fundu sig kjarklitlar að ýta verkinu á stað. Samt fannst okkur það aðeins tímaspursmál þar til Sunnudagaskóli yrði kominn á fót þar. —

Eftir að hafa þegið kaffi í nágrannahúsi hjá Kernesteds hjónunum, fórum við þaðan til messu í Silver Bay kirkju; en nú hafði rignt stórum og brautir alveg ófærar. Messan var því illa sótt, og fáir til að hlusta á okkar mál. Samt var því tekið vel og forseti lofaði, fyrir hönd safnaðarins, að líta eftir fjárhag Sunnudagaskólans, þangað til hann væri kominn á fót. Mrs. Ólafson tók að sér að útvega Sunnudagaskólabækur og blöð.

Á þessari ferð heimsóttum við sjö heimili fyrir utan það fólk er sat á fundi okkar, og alstaðar var okkur tekið með miklum hlýleika.

Vegna þess að tími var naumur og fólk var í miklu annríki við heyskap, álitum við heppilegra að gjöra ekki meir í þetta sinn, en að takast á hendur aðra ferð um haustið.

Seint um haustið, í nóvember, lögðum við Mrs. H. G. Henrickson á stað norður á leið. Var als ómögulegt fyrir fleiri nefndarkonur að vera með í ferðinni.

Komum við til Gíslason systkinanna eins og fyrr, og var tekið jafn vel á móti okkur sem áður.

Miss Ella Gíslason vísaði okkur til vegar og heimsóttum við Mrs. Björn Johnson. Hún skýrði frá að Miss. Evelyn Sigurðson kenndi Sunnudagaskóla lexíurnar milli kl. 3 og 4 á föstudögum í Ralph Connor skólanum og gengi það mjög vel. Og á öllum heimilunum þar sem við komum við, var mikið talað um hvað börnin hefðu ánægju og yndi af Sunnudagaskóla lexíunum.

Við heimsóttum fjögur heimili þann dag.

Á sunnudaginn keyrðum við norður til Darwin skóla héraðs. — Miss Kristín Gíslason fylgdi okkur þann dag og vísaði okkur til vegar. Hið fyrsta heimili sem við heimsóttum, var þeirra hjóna Mr. og Mrs. Ágúst Davíðson. Konan er skozk, en hann er færeyskur. Á þessu heimili fundum við mikinn áhuga fyrir Sunnudagaskólastarfinu og vildu þau sjá Sunnudagaskóla stofnaðann á sunnudögum sem fyrst.

Þaðan fórum við til Mr. og Mrs. Skafti Sigurðson, foreldra Evelyn, og skýrðu þau frá starfi dóttur sinnar í Ralph Connor skóla. Þar hittum við Evelyn, og lét hún í ljós ánægju sína yfir, hvað börnin væru hrifin af lexíunum; til dæmis, að "Halloween"-veizlan

þeirra, sem bar upp á föstudag, var í einu hljóði frestað til mánudags svo þau skyldu ekki tapa af Sunnudagaskólanum.

Við töluðum um margt á þessu heimili, um kvennfélög og Sumarbústað Bandalags Lúterskra Kvenna.

Þar næst komum við að heimili Mr. og Mrs. Gísla Hallson á Vogar. Þar töluðum við um, hvað skyldi gjöra og hvert skyldi halda. Mrs. Hallson bauðst góðfúslega til að fylgja okkur suður á veg. Fórum við þá fyrst til kirkjunnar á Vogar. Kirkjan er falleg og rúmgóð; útsýnið við Dog Creek vatnið yndislega fagurt. Í kirkjunni er vandað altari, sem Guðmundur Jónasson hefir gefið í minningu um móður sína.

Fyrir handan brautina er verzlun Björns Eggertssonar og þar næst heimili hans. Við komum við hjá Mrs. Eggertsson og var erindi okkar tekið vel. Þar kynntumst við Miss Margréti Lambertson, skólakennara við Dog Creek skólann. Hún var fús til að koma á stað Sunnudagaskóla, en taldi það erfitt í þessu héraði, þar sem flest börn í skólanum væru katólsk.

Þaðan héldum við til Mr. og Mrs. Óskar Johnson. Þar fundum við mikinn áhuga fyrir Sunnudagaskóla og öðrum kirkjumálum. Minst var á hvað það væri erfitt að ná til lútersks prests fyrir jarðarfarir og sárt hvað lítil prestsþjónusta væri þar um byggðir.

Bróðir Óskars, Óli Johnson og kona hans, búa þar skammt frá, og var það okkar næsta heimsókn. Mrs. Óli Johnson er systir Guðmundar Jónassonar og mættum við þar hinum sömu, góðu viðtökum, sem alstaðar.

Við vonum, að nú sé byrjað sunnudagaskóla starf við Vogar sem haldið verði uppi í sumar.

Biðjum við af alhug að kirkjufélag okkar og Bandalag Lúterskra Kvenna megi taka saman höndum til að auka áhuga og efla þetta starf í þessari byggð, og alstaðar þar sem Íslendingar búa.

ÖLLUM ÞEIM

sem auglýsa í þessu riti, vottar útgáfunefndin

VIRÐINGU OG ÞAKKLÆTI

# Bindindi

Erindi flutt af **Mrs. Margaret Bardal**

Erindreki félagsins "The Manitoba Temperance Alliance"

Forseti, erindrekar og gestir!

Sem erindisreki ykkar fyrir bindindisstarfið í Manitoba, kem ég hér með dálítið uppkast um starf á árinu, sem hefir verið í rétta átt.

Liðsafli okkar Manitoba Temperance Alliance, hefir magnast, fólk er að vakna og sjá hættuna, aðalstarfið er í höndunum á mönnum og konum, sem eiga mjög annríkt á öðrum sviðum; en það fólk sér nú mikla nauðsyn að beita sér fyrir bindindismálinu.

Félagið var svo heppið á árinu að fá loforð um styrk frá Manitoba stjórninni. Okkur var lofað 40 c., á móti hverjum $1.00, sem almenningur legði til, og það meinar, að hver dollar, sem við gefum, verður $1.40 til bindindisstarfsins í fylkinu.

Við vorum svo heppin, með að fá stöðugann skrifara, sem heitir A. E. Floyd, mann með mikilli þekkingu í mentamálum. Hann hefir ferðast mikið um með hreyfimyndir. Við höfum völ á fjórum myndum. 1. "It is the Brain that counts". 2. "That Boy Joe". 3. "Drunken Driving". 4. "The Pay Off". Herra Floyd, hefir sýnt þessar myndir í 36 bæjum, utan Winnipeg borgar, og á 40 samkomum í Winnipeg, alls 76 stöðum, með yfir 9000 tilheyrendum.

Tækifæri fyrir alla sem vilja sinna þessu velferðarmáli, að útbreiða það á þennan veg, er ómetanlegt. Þeir þurfa ekki annað en leita til Manitoba Temperance Alliance, Room 5. Grace Church, Winnipeg. —

Það fóru fram vínbanns kosningar í 8 sveitum síðastliðið haust, við unnum 6 af þeim, og dómstólarnir dæmdu eina kosningu ógilda, svo vínsölumenn unnu aðeins eina.

Bindindisnefndin leitaði til Right Hon. R. F. McWilliams fylkisstjóra, og bað hann um vernd og fylgi, og það fékkst með samþykki stjórnarráðsins í Manitoba. Svo hann var gerður að verndara — Patron. — Eins var leitað til kirkjudeilda ýmsra trúarflokka, sem hafði þann árangur að biskupar, bæði Engelsku og Katólsku deildanna, voru gerðir að verndurum — Patrons. — Við vonum að fleiri

leiðtogar kirkjudeilda aðstoði okkur með því að leyfa að þeirra nöfn séu skráð á okkar verndaralista, til að styrkja okkar bindindis starfsemi út um fylkið, í skólum þess bæði Sunnudagaskólum og mentaskólum.

Skýrslurnar sýna að það hefir verið eytt meira en 36 dollurum í áfengi á hvern mann í Kanada, á síðastliðnu ári. Það gefur aðvörun um hættuna, svo alvarlega, að þeir sem neyta þess, eru að vakna, og margir að snúast gegn hættunni, og ganga í lið með okkur.

Leiðtoginn, sem stofnaði "Alcohol Anonymous"-félagið í Bandaríkjunum, kom til Winnipeg ásamt konu sinni, og töluðu þau bæði hér á nokkrum stöðum. En sérstaklega athyglisverð samkoma undir stjórn A. A.-félagsins, var haldin í "Playhouse leikhúsinu; þangað fór fjöldi manns, og kom út fróðari en hann fór inn, um áhrif áfengis.

Þetta A.A.-félag, fer vaxandi alstaðar þar sem það hefir komist á, og er að bjarga mörgum frá eyðileggingu áfengisins. Það er ekki til neins, að neyða neinn til að ganga í það félag, hvötin verður að koma frá þeim sjálfum, sem vaknar ekki fyrr, en það fólk er hjálparlaust, og undir flestum kringumstæðum vinalaust. Þetta er nú alt gott og blessað, eins langt eins og það nær. En er ekki betra, að leggja sína krafta fram, til að fyrirbyggja voðann, svo að fólk verði honum ekki að bráð í þúsunda tali?

Það er einmitt þetta sem við erum að reyna til að gjöra með þessari bindindisstarfs viðleitni okkar, og væntanlegu fulltingi ykkar gegn þessum erki óvini mannanna.

Það verður ekki gert með því einu, að tala og skrifa um það; það þarf að vinna að því af alefli, og í sameiningu.

Það eru flestir að reyna að safna í dálítinn sjóð, til að gleðja vini og ættingja um jólin. Ekki veit ég hvað sá sjóður varð stór, né heldur hvað miklu að menn gátu úr þeim sjóði miðlað. En meira hefði það sjálfsagt getað verið, ef að menn hefðu ekki eytt $185000.00 — eitt hundrað áttatíu og fimm þúsund dollurum — til vínkaupa, eins og menn gerðu á síðastliðnum jólum í Winnipeg, og það á einum degi. Svo það virtist að víngleðin hafi þar verið gleðinni valdmeiri, og þá líka afleiðingar víngleðinnar. Því hver svartholsklefi, var þar fullskipaður um hátíðina. Það er umhugsunarefni fyrir næstu jól.

**Áskorun til Kvennþjóðarinnar í Canada**

Eru canadiskar konur reiðubúnar sjálfar, að styðja alþjóðar vel-

ferð, til að byggja sterk Alþjóðarfélög, eða samband? Við þurfum þessháttar félög eða félagsskap í Canada. En það verður ekki hægt nema með því að fá styrk frá kristnum konum þjóðarinnar, konum, sem vilja leggja eitthvað á sig til að frelsa börnin sín frá hættunni. Þær ættu að mynda, eða ganga í bindindisfélög. Það eru tvö Alþjóða félög til hér í fylkinu, annað er Good Templara félagið, hitt er aðeins fyrir konur; það er Hvíta bandið. Við höfðum um eitt skeið öfluga, íslenzka deild, í þeim félagsskap, á meðal Íslendinga, sem var stofnuð af Ólafíu Jóhannsdóttir, og var stjórnað um langt skeið af Ingibjörgu Jóhannesson, en það dó með henni. Sá félagsskapur er mjög öflugur um allan heim, og gerði stórt og göfugt starf í sambandi við stríðið.

Manitobadeildin hélt sitt þing þann 25. s. l. mánaðar, og ég var boðin þangað. Þær gefa út mánaðar blað, sem ber með sér, að það félag er afkastamikið, og athafnaríkt, að því er bindindismálið, og öll velferðarmál Canada snertir. **M. B.**



# Twenty-Fourth Convention of the Lutheran Womens' League

**Held in the First Lutheran Church, Winnipeg.**

June 4-7, 1948.

Mrs. Ingibjorg J. Olafsson, president of the Lutheran Women's League, formally opened the convention at 2 p.m., Friday, June 4. Rev. Eirikur Bryjolfsson, exchange minister from Iceland, led the gathering in worship; in a short address he expressed his best wishes to the League and its convention. Mrs. Margaret Stephensen and Mrs. Louise Gudmunds gave addresses of welcome to delegates and visitors, on behalf of the Senior and Junior Ladies' Aids of the First Lutheran Church.

A silent tribute, followed by the Lord's Prayer, was paid to members who had passed away during the year, namely: Erika Thorlaksson, honorary member of the Senior Ladies' Aid, Selkirk,

and of the L.W.L.; Hildur Finnson, Vidir; Kristin Jonasson, Vidir; Inga Johnson, individual member, L.W.L.; Asta Johnson, Hallfridur Stephenson, Arnbjorg Johnson, Gudrun Bardal and Gudny Fridriksson, Winnipeg.

A business meeting was in session until 6 p.m.

## PROGRAM

FRIDAY, 8 p.m.

Devotional Exercises—Rev. S. Olafsson.

Address of Welcome—Mrs. Olafsson, president.

1. Violin Solo ........ Dorothy Mae Jonasson
   Accompanied by Joan Porter.
2. Paper—"Camping" ........ Mrs. Robert McQueen
   Executive Secretary, Council of Social Agencies.
3. Vocal Solo ........ Pearl Johnson
   Accompanied by Sigrid Bardal.
4. Address ........ Svanhildur Sigurgeirsdottir
   From Reykjavik, Iceland.
5. Paper ........ Mrs. E. H. Fafnis, North Dak.
   Review of Book—"How to Live Your Faith", by Rev. Ernest Thomas.
6. Piano Solo ........ Pearl Halldorson

SATURDAY, JUNE 5th

9.30 a.m.—Devotional Exercises ........ Rev. S. Olafsson

9.45 to 12.00 a.m. and 2 to 6 p.m. ........ Business Meetings

8 p.m.—Program.

Devotional Exercises ........ Dr. R. Marteinsson

1. Accordion Solo ........ Florence Richardson
2. Reading—"Sprakan hans Olafs Joshua"
   by Elinborg Larusdottir, author, Reykjavik.
3. Vocal Solo ........ Mrs. Unnur Simmons
   Accompanied by Mrs. Jonina Matthiason
4. Paper ........ Rannveig K. G. Sigbjornsson
   "The Home and World Peace."
5. Accordion Solo ........ Florence Richardson

6. Moving Picture—"It Is the Brain That Counts",
Shown by Mr. A. S. Bardal,
by courtesy of the Manitoba Temperance Alliance.

SUNDAY, JUNE 6th

7 p.m.—Icelandic Service—Rev. E. Bryjolfsson preached the sermon which was addressed to the Lutheran Women's League. Mrs. Pearl Johnson sang a solo, and the choir an anthem. All delegates attended in a body.

MONDAY, JUNE 7th

9.30 to 12.00 a.m. and 2.00 to 4.00 p.m. .................... Business Meetings
4.00 to 5.00 p.m. .................... Handicraft Exhibit
5.00 p.m. .................... Closing of Convention

Mrs. I .J. Olafsson, re-elected president, thanked the delegates and other members for fine co-operation, and expressed appreciation for their confidence in her.

Mrs. Kristrun Sigurdson, Riverton, on behalf of the Lutheran Women's League, thanked the Junior and Senior Ladies' Aids of the First Lutheran Church, for their gracious hospitality.

Elinborg Larusdottir addressed the meeting and Mrs. Gudrun Brynjolfsson expressed thanks for the honor of being elected honorary member of the League. Rev. E. Brynjolfsson gave a short address and led the meeting in worship, whereupon Mrs. I. J. Olafsson formally closed the twenty-fourth convention.

**CONVENTION BUSINESS IN BRIEF**

The Convention sent flowers and messages of sympathy to the following, who were ill at the time: Mrs. Gudrun Johnson, Mrs. Ingiridur Jonsson, Mr. and Mrs. M. M. Jonasson.

Accredited representatives attended the Convention as follows: 27 delegates from 15 societies, 8 officers and committee members, 9 members of the Board of Directors and 2 honorary members. Two new individual members joined the League, Mrs. Florence Paulson and Mrs. Anna Skaptason.

Reports were submitted by the various officers and conveners outlining the year's work of the L.W.L., and also by 18 of the 20 societies within it. One society withdrew this year, the Immanuel Missionary Society, Wynyard, which had to dissolve for lack of

members. The L.W.L. appreciates the faithfulness and punctuality of this society in sending reports and fees, while it was in existence. To make up for this loss we have hopes of gaining the Lutheran Ladies' Aid, Vancouver, as a member, in the near future. Its president, Mrs. Sigurdson, was a visitor at our convention, and extended greetings from her society.

The reports showed that the societies have on their agenda: church and Sunday school work, home and foreign mission work, charity, post-war work and cultural work. All are interested in, and support generously, the League's projects, particularly Sunrise Lutheran Camp.

FINANCES—The treasure's report showed: Balance on hand, June 1, 1947, $221.71; Receipts, $104.31; Disbursements, $90.01; On hand, June 1, 1948, $237.01. The "Ardis" financial report showed: Balance on hand, June 1, 1947, $575.61; Receipts, $493.57; Disbursements, $409.87; On hand June 1, 1948, $659.31.

THE AGENDA

1. "Ardis"—A report, by Mrs. Gudrun Johnson, was read. She has been business manager for the magazine since its beginning in 1933. In it she thanked the members for their co-operation and expressed her good wishes to the League. She was now absent for the first time, due to a serious illness, which, about two weeks later led her forever away from her duties in the League, in her community and in her home. The convention paid tribute to her fine outstanding service, as president of the L.W.L. for its first ten years, and as business manager of "Ardis" for 15 years. God bless her memory.

No changes were suggested in connection with the publication of "Ardis" .

2. TEMPERANCE—Mrs. Margret Bardal, our representative with the Manitoba Temperance Alliance, outlined the work being done by that organization. She named four moving pictures available from Mr. A. E. Floyd, secretary, M.T.A., Room 5, Grace Church, Winnipeg, and they are: "It Is the Brain That Counts", "That Boy Joe", Drunk Driving", "The Payoff". She urged members to avail themselves of these pictures, and to do everything in their power to further the temperance cause. She stressed preventive measures through education as the most effective weapon

against alcoholism. The convention expressed appreciation for Mrs. Bardal's active interest and capable work, and voted $25.00 to the M.T.A.

3. SUNDAY SCHOOL WORK—Mrs. Elizabeth Bjarnarson gave an iteresting account of two trips taken by the committee members to Lake Manitoba districts. As a result of these trips, Sunday school was carried on all year in the Ralph Connor School by Evelyn Sigurdson, school teacher, and is being carried on this summer in the church at Vogar. The committee members expressed confidence in the future of church work in these districts and hope for the establishment of more Sunday schools through the co-operation of the L.W.L., the Icelandic Synod and the people in the districts concerned.

4. THE CAMP—Under the supervision of the Board of Directors, the Sunrise Lutheran Camp has operated successfully, with Mrs. I. J. Olafsson as adviser, Mr. S. O. Bjerring as chairman, Mrs. Fjola Gray as secretary, Mrs. Anna Magnusson as treasurer, and with conveners, Mr. S. O. Bjerring, financial committee, Dr. E. Johnson, recreational committee and Rev. E. H. Fafnis, educational committee. Mrs. Gray's report showed that clearing, fencing and building of an additional hut, were among the tasks being accomplished. Over two hundred persons attended groups and gatherings at the camp a year ago. The program for 1948 is:—Sunday School Teachers' Rally, June 25-27; Adults and Mothers with children under 6 years, June 28 to July 5; Junior Boys and Girls, 6 to 14 years, July 6 to 13; Christian Leadership Training Course, July 14 to 24; Senior Girls, 10 to 14 years, July 24 to August 2; Ministers' Retreat, August 3 and 4; Senior Boys, 10 to 14 years, August 5 to 15.

Mrs. Anna Magnusson gave the camp's financial report, which showed: On hand, July 16, 1947, $131.36; Receipts, $1,655.20; Disbursements, $1,021.42; Bank balance, June 2, 1948, $765.14. The Memorial Fund showed: On hand, June 21, 1947, $501.56; Receipts, $233.73; Disbursements, $370.98; Bank balance, June 2, 1948, $363.31.

Mrs. G. A. Erlendson read a report covering the fund established in North New Iceland in memory of the Icelandic pioneers: Total collected, $1,711.58; Total paid for the boys' dormitory, $1,494.36; On hand, June 2, 1948, $217.22.

